# Fimtýgi
# Passíu Psálmar,

orktir

af

Sra. Hallgrími Péturssyni.

---

Seliast almennt innbundnir 24 skildingum.

---

Leirárgordum vid Leirá, 1796.
Prentadir ad til-hlutan ens Íslendska
Lands-uppfrædíngar Felags,
á kostnad Biörns Gottskálkssonar,
af Bókþryckiara G. J. Schagfiord.



# 1. Psálmur.

## Um Kristí útgaungu í gras-gardinn.

Lagid er: Minstú, ó madur! á minn deyd.

Upp, upp, mín sál og allt mitt géd, upp mitt hiarta og rómur med, hugur og túnga hiálpi til, Herrans pínu eg minnast vil.

2. Sancte Páll skipar skyldu þá, ad skulum vér allir jordu á, kunngiora þá qvöl og daprann deyd, sem Drottinn fyrir oss auma leid.

3. Lúsfann Jesúm til lausnar mér, lángadi þó ad deyia hér, mig skyld' og lysta ad minnast þess, mínum Drottni til þacklætes.

4. Innra mig loksins ángrid skér, æ! hvad er lítil rækt í mér; Jesús er qvalinn í minn stad, ossialdan hef eg minst á þad.

5. Sál mín, skodum þá sætu fórn, sem hefir oss vid Gud Drottinn vorn,

fordæmda aptur forlíkad, fognudur er ad hugsa um þad.

6. Hvad stillir betur hiartans bøl, enn heilög Drottins pína og qvøl? hvad heptir framar hneixli og synd, enn Herrans Jesú blódug mind?

7. Hvar sær þú betur sál mín sied, sanna Guds hiartans ástar-ged, sem fadir gædskunnar feck til þín, framar enn hér í Jesú pín?

8. O Jesú! gef þinn anda mér, allt svo verdi til dírdar þér, uppteiknad, súngid, sagt og ted, sídan þess adrir nióti med.

---

9. Ad lidinni máltíd lofsaungrinn, las sínum fødur Jesús minn, sídarsta qvøldid, seint þad var, súngu med hans lærisveinar.

10. Guds Sonur sá, sem sannleiks rád, siálfur átti á himni og lád, þádi sitt braud med þackargiord, þegar hann umgeckst hér á jord.

11. Þurfa-madur ert þú, mín sál! þiggur af Drottni sérhvort mál, fædu þína og fóstrid allt, fyrir þad honum þacka skalt. 12. Ill-

12. Illum þræl er það eilif smán, ef hann svo þiggur Herrans lán, drambsamlega og dreissar sig, Drottinn geymi frá sliku mig!

13. Eptir þann sanng, en ecki fyr, útgéck Jesús um hússins dyr, að hans sidveniu er það skéd, til oliu-fiallsins gánga réð.

14. Lausnarans veniu lær og halldt, lofa þinn Gud og dirka skalt, bænarlaus aldrei biriud sé, burtfor af þinu heimile.

15. Yfirum Kedrons breidann beck, blessadur þá með sveinum géck; sá lækur nafn af sorta ber, sýnir það góðann lærdóm mér.

16. Yfir hörmúngar er mín leid, æ medan varir lífsins skeid; undan géck Jesús, eptir eg á þann að feta rauna-veg.

17. Horfi eg nú í huga mér, Herra minn Jesú eptir þér, dásamleg eru dæmin þín, dreg eg þau giarnan heim til mín.

18. Þú vildir ecki upphlaup hart, yrði þegar þú fánginn vart, út í gras-gardinn géckstú því, gafst þig í manna hendur frí.

19. Af því lær' eg að elska ei frekt, ægið gagn mitt, svo fridur og spekt, þess vegna raskist, þér er kiært, þolinmædi og géð hógvært.

20. Sorgandi géckstú sagda leid, særdi þinn huga qvol og neyd; hlæandi glæpa hliöp eg stig, hefir þú qvittad fyrir mig.

21. Vort lífer gras-gards gánga rétt, grofin er ollum fyrirsett. Syndugra leid ei leik þér að, lendir hún víst í qvala-stad.

22. Yðrunar-tárin ættu vor, oll hér að væta lífsins spor, gégnum daudann med gledi og lyst, gaungum vér þá í himna-vist.

23. Þá Jesús nú á vegjinum var, vid Postulana hann rǽddi þar, henda mundi þá hrøsun sliót, hardlega Pétur þrætti á mót.

24. Frelsarinn Jesús fyrirsier, þa fall og hrøsun er búin mér, hann veit og líka lækning þá, sem leysa kann mig sorgum frá.

25. Aldrei, qvad Pétur, ætla eg, á þér hneixlast á nockurn veg, þó allir frá þér falli nú. Fullkomin var hans losun sú.

26. Sú von er bædi volt og mirk; ad voga freklega á holdsins styrk, án Guds nádar er allt vort traust, óstödugt, veikt og hiálparlaust.

27. Gef mér, Jesú! ad gá ad því, glas-kéri ber eg minn sésiód í, vidvörun þina virdi eg mest, veikleika höldsins sier þú best.

## 2. Psálmur.

### Um Kristí qvøl í gras-gardinum.

Lagid er: Fadir vor, sem á himnum ert.

Jesús géck inn í gras-gard þann, Gethsemane var nefndur hann; af olíu þrúgun þad auk-nafn bar, olíutréd rétta Herrann var, oleum hiálpræðis allra fyrst, af hanns lífi þar pressadist.

2. Í aldingardi fyrst Adam braut, aptur Jesús þad bæta hlaut, aldingardseikin ávöxt gaf, eymd, synd og daudi kom þar af; í aldingardi liúft lífsins tréd, lífgunar friófgun veita réd.

3. Júdas þeckti vel þennann stad, þar hafdi hann lengi umhugsad, helst mundi pláts þad hentugast, Herrann

 mætti

mætti þar forrádast, svo særstir hefdu ad segia af því, svik hanns lægiu svo hylmíng t.

4. Satan hefir og sama lag, situr hann um mig nótt og dag, hyggiandi ad glögt hvar hægast er, í hættu og synd ad koma mér; en þó í þeim stad allra mest, sem á eg Gudi ad þióna best.

5. Heims börnin hafa lyst þá lært, lygd og svikrædi er þeim kiært, fótsporum diöfuls fylgiande, falsrádin draga þó í hlé. Frá hans og þeirra hreckia-stig, Herra Jesú bevara mig!

6. Opt hafdi Jesús í þann stad, ádur gengid; því veit eg þad, hefir sannlega Herrann minn, hugsad um pínu og dauda sinn, fulltíngis bedid födurinn þar, svo fengi hann stadist píslirnar.

7. Jurtagardur er Herrans hér, helgra Guds barna legstadir, þegar þú gengur um þennann reit, þín sé til reidu bænin heit, andláts þíns gæt og einninn þá, upprisu-daginn minstú á.

8. Lærisveinana Lausnarinn kiær, lét suma bída nockud fiær, prjá tók þó med sér hiarta hreinn, hann girntist ecki ad vera einn; sála mín þar um

þenk-

þenkia skalt, þér til lærdóms það skédi allt.

9. Guds kristni er grasgardur hreinn, Guds Sonar ertú jlærisveinn; sit þú hvar sem hann segir þér, sonn hlýdni besta offur er, til krossins ef hann þig kallar þar, kom. þú gladvær án moglunar.

10. Freisting þúng ef þig fellur á, fordastú einn ad vera þá, gudhræddra selskap girnstú mest, gésa þeir jafnan rádin best, huggun er manni monnum ad, miskun Guds hefir svo tilskickad.

11. Hiartanlega vard harmprúnginn, Herrann Jesús í þetta sinn, holdid skalf vid það feikna fár, flutu í vatni augun klár, sagdi grátandi: sál mín er, svo allt í daudann hrigg í mér.

12. Hart nær stein-snari frá þeim fór, féll strax til jardar Drottinn vor, flatur sitt blessad andlit á, ógnarleg qvol hann mæddi þá, hiartad bardist í brióstí heitt, bædi var líf og sálin þreytt.

13. Samvitskan mig nú siálfann slær, sie eg það giorla Jesú kiær, mín synd, mín synd, hún þiádi þig, þetta allt leidstú

fyrir mig, avi! hvad hef eg aumur þræll, aukid þér mædu Drottinn sæll!

14. Mér virdist svo sem mín misgiörd, sé meiri ad þyngd, enn himin og jörd, því Jesús þad fodursins ordid er, sem allt med sínum krapti ber, flatur hlaut þó ad falla þar, þá fyrir mig bar hann syndirnar.

15. Hiartans gledi og huggun traust, hér géfst þér sál mín efalaust, þad giald fyrir mína misgiörd, er meira verdt enn himin og jörd, hans sorg, skiálfti og hiartans pín, hiá Gudi er eilíf qvittan mín.

16. Fram þegar Jesús fallinn var, fegurstu bæn hann giørdi þar: abba fadir ástkiæri minn, af mér tak þennann kaleikinn, þó svo sem helst þú siálfur vilt, sagdi Jesús med gédid stillt.

17. Urædin best er audmiúkt géd, ángrad hiarta og bænin med, hvenær sem kémur hörmúng ad, hugsa þú, sál mín! vel um þad, óþolinmædi og möglan þver, meiri refsíngar ablar sér.

18. Oblíúg-

18. Obliágur skaltú aldrei neitt, útheimta hvad þú girnist veitt, til holdsins muna hentugt þér, hugsa jafnan ad Drottinn sier; hvad lífi og sál til lids er nú, lángtum betur enn siálfur þú.

19. Eins líkaminn og sálin sé, sannaudmiúkleg í bæninne, álitur Drottinn innra hitt, ei ad sidur skal holdid þitt, fyrir Gud med blygdun gánga fram, giordi svo fordum Abraham.

20. Jesú þín grátleg gras-gards pín, gledur or-þiáda sálu mín, þitt hiartans ángur hiartad mitt, frá hrigd og mædu giordi qvitt; því skal míns hiartans hiarta-þel, heidra þig minn Immanuel.

## 3. Psálmur.

### Um Herrans Kristí dauda-stríd.

Med sama lag.

Enn vil eg sál mín uppá ný, upphaf taka á máli því: uppstód Jesús, þó þreyttur sé, þrisvar sinnum frá bænninne, lærisveinarnir svásu fast, St. Pétur því ávítast.

2. Til og frá gëck hann prísvar þó, þar fëckst ei minsta hvíld né ró; undanfæri því eckert fann, allstadar Drottins reidi brann, gëgnum hold, ædar, blód og bein, blossi gudlegrar heiptar skein.

3. Himna-liósid var honum birgt, helst því af nótt var ordid mirkt, ástvina huggun enga fann; allir sváfu um tíma þann, jordin var honum óhæg eins; engin fëckst bót til þessa meins.

4. J þessum speigli þad sie eg, þeim sem Drottinn er reidur miog, hvorki verdur til huggunar, himin, liós, jord né sképnurnar, án Guds nádar er allt um kríng, eymd, mæda, qvol og fordæmíng.

5. Framar siest hër, hvad fárleg së, fordæmdra qvol í Helvíte; frá einni plágu til annarar, í ytstu mirkrum þeir ráfa þar; o! hvad syndin afskapleg er, allt þetta færir hún med sër.

6. J þridia máta af þessu siest, þad lærdú, sál mín! allra best, Guds reidi-eld og eilíst fár, útslocktu og lægdu Herrans tár, allt honum því til ama var, svo allt yrdi þër til huggunar.

7. Hrygd-

7. Hrigdar-straumin þín, Herra minn! í Himnariki mig leida inn; í nætur mirk-rum lá neyd á þér, nádar og dírdar liós gafst mér; vinir þér enga veittu stod, svo vinskap feng' eg vid sannann Gud.

8. Þar kom loksins á þeirri tíd, þreytti Jesús vid daudann stríd. And-lát mitt bædi og bana-sótt, blessadist mér þá sömu nótt, daudinn tapadi, Drott-inn vann, dírdleganń sigur gaf mér hann.

9. Agéck svo daudans ablid ríkt, ecke-t dæmi má finna slíkt: allur líkami Lausn-arans, laugadist þá í blódi hans, sá dreira-sveitinn dundi á jörd, Drott-ins pína því miog var hörd.

10. I Adams broti var blódskuld giörd, bölvan leiddi þad yfir jörd, Jesú blód hér til jardar hné, jördin aptur svo bless-ud sé, ávöxtur, gródi og aldin klár, oss verdi ad notum sérhvört ár.

11. Sár-kalda daudans sveitabad, um sídir þá mér kémur ad; sárheiti dreira-sveiti þinn, sefi og mýki Jesú minn, ángistar sveita eilíft bál, aldrei lát snerta mína sál.

12. Mér er svo qvöl þín minneleg, á morgni hvörium þá uppstend eg, fyrst

eg stíg nidur fæti á jörd, sær' eg þér hiartans þackargiörd, blód-sveitinn þinn eg bid mér sé, blessan og vernd á jördunni.

13. Hormúng þá særir huga minn, hef eg mig strax í grasgard þinn, dropana tín' eg dreira þíns, Drottinn! í siódinn hiarta míns, þad giald alleina gyldir mest, hiá Gudi fyrir mín afbrot verst.

14. Upphaf alls mesta ósögnuds, á-klogun straung og reidi Guds, bætt er, fridstillt og forlikad, Fadirinn lét sér lynda þad, Sonurinn bar hanns brædi frí, borgadist þrællinn út med því.

15. Þess meir sem pínan þreyngdi ad, því innilegar Jesús bad, heilagur Engill himnum frá, Herra sinn kom ad styrkia þá. Enn hefir þú hér einn lærdóm, ydka og lær hann sál mín fróm.

16. Ef hér verdur, sem opt kann ské, undandráttur á hiálpinne, bid, styn, and-varpa æ því meir, sem aukast vilia harm-ar þeir, sodurlegt hiarta hefir Gud, vid hvorn, sem lídur kross og naud.

17. Siá þú ad Engill sendur var, Syni Guds hér til huggunar, þeir gódu andar oss eru nær, alla tíma þá bid-

ium

ium vær, helst þá lifs enda lídur ad, Lazari dæmi sýnir það.

18. Heidur, lof, dírd á himni og jörd, hiartanleg ástar þackargiord, Drottinn Jesú! þér sætast sé, súngin af allri kristninne, fyrir stríðið þig þiádi frekt, það er vort frelsi æfinlegt.

## 4. Psálmur.

Samtal Kristí vid Lærisveinana.

Lagid er: Einn Gud Skapari allra sá.

Postula kiøri Kristur þriá, í quølinni sér ad vera hiá, baud þeim vakid og bidjed víst, brádleg freistni svo grandi síst.

2. Star sem Jesús um stein=snar nær, sté fram lengra (þess gætum vær), allir sofnudu sætt med ró, siálfur Herrann einn vakti þó.

3. Adur var svoddan um þig spád, ásett framkom nú Herrans ráð, þú hlautst Guds reidi=þrúgu einn, þreyttur ad troda Jesús hreinn.

4. Ef eg skal ecki sofa í synd, svo er náttúran veik og blind, um stein=snar máttk

máttú eitt mér þá, aldrei, minn Jesú!
víkia frá.

5. Nætur-hvíldin mín náttúrlig, nóg er mér trygg, þá veit eg þig, hiá mér vaka til hiálpræðes, hvørt qvøld vil eg mér óska þess.

6. Þrisvar Jesús til þeirra fór, þó að hann mæddi pína stór; hann bað Pétur með hriggri lund, hiá sér vaka um eina stund.

7. En hann sofnaði æ því meir, ei heldur vissu siálfir þeir, hvøriu svøruðu honum þá. Herrans pínu miog jók það á.

8. Mig hefir liúfur Lausnarinn, leidt inn í náðar gras-garð sinn, vakandi svo eg væri hér, vitni skírnin mín um það ber.

9. Ungdóms bernskan, sem vonlegt var, vildi mig ofmiog svæfa þar; foreldra hirtíng hógværlig, hans vegna kom og vakti mig.

10. Aldurinn þá mér eðladest, áfell giálsis svefninn mest; kennimenn Drottins komu brátt, kolluðu mig að vakna brátt.

11. Fullvaxinn gleymsku svefninn sár, sókti mig heim og vard miøg dár, dimman heims elsku dróst ad med, dapurt vard mitt til bænar géd.

12 Þá kom Guds anda hræring hrein, í hiartad mitt inn sá liómi[n]n skein, en í heimskunni svo eg svaf, sialdan mig neitt ad sliku gaf.

13. Sárlega var mín siblskan blind, forlát mér, Jesú! þessa synd, hvar med ad jók eg hormúng þér, en hefnd og refsing siálfum mér.

14. Láttú þó aldrei leidast þér, liúfi Jesú! ad benda mér, hugsi til mín þitt hiartad mildt, hirdtú mig líka, sem þú vilt.

15. Vil eg nú hiartans feginn fá, Frelsari minn! ad vaka þér hiá, andinn til reidu er í stad, ofmiøg holdid forhindrar þad.

16. Jesús unnti med liúfri lund, Lærisveinum ad hvíla um stund; því hann vorkénnti þeim og mér, þad eitt mín blessud huggun er.

17. Sídarst allra þá sá hann þar, svikara lid fyrir hendi var, band þeim,

vak-

vakid og bidied best, burt er nú værd-ar tídin mest.

18. Svoddan áminning, sála mín! sannlega skyldi ná til þín, svo þig ei skadi svefninn vær, svikarinn er þér ecki fiær.

19. Daudinn forrædur fiorid þó, fyrr enn vardi, því margur dó; hann er í nánd þó siáist sist, sérhvörn dag er hans áhlaup víst.

20. Daudinn þá mætir dapur þér, dóminn hefir hann eptir sér, Andskotinn bídur búinn þar, í bálid vill draga sálirnar.

21. Siá þú vel til, ad svoddan her, sofandi komi ecki ad þér, í hreinni ydran þá hvörn dag vak, herskráda Drottins á þig tak.

22. Bænin má aldrei bresta þig, bú-in er freisting ýmislig, þá líf og sál er láid og þiád, lykill er hún ad Drott-ins nád.

23. Andvana lík til einkis neytt, er ad sión, heyrn og máli sneidt, svo er án bænar sálin snaud, siónlaus, kold, dauf og rétt stein-daud.

24. Vak

24. Vaktú, minn Jesú! vaktú í mér, vaka láttú mig eins í þér, sálin vaki þá sofnar líf, sé hún ætíð í þinni hlíf!

## 5. Psálmur.

### Um Gydínganna komu í gras-gardinn.

Lagid er: Heidrum vier Gud af hug' og sál.

Medan Jesús þad mæla var, manns-fiøldi kom í gardinn þar, Júdas sá Herrans sinn forréd, sveinar Prest-anna og strídsfólk med, skridbittur báru blis og sverd; búnir miøg út í þessa ferd, um þad eg framar þenkia verd.

2. Verdur þad opt þá varir minst, voveifleg hætta búin finst, ein nótt er ei til enda trygg, ad því á qvøldin sál mín hygg, hvad helst sem kann ad koma uppá, kiós Jesúm þér ad vera hiá, skélfing engin þig skadar þá.

3. En Júdas hafdi ádur sagt, and-kénni þeim, og svo vid lagt: hvørn eg kyssi handtakid þann, høndlid med gætni og bindid hann Varastú, sál mín! svik og prett; þó synast megi í hylming sett, Drottinn auglióst þad dæmir rétt.

4. En

4. En Jesús ádur allt fornam, hvad átti vid hann ad koma fram, þó géck hann siálfur þeim á mót, þanninn ræddi med kiærleiks hót, ad hvøríum leitid híngad þér? hópur íllmennis þanninn tér: Jesúm Nadverska nefnum vér.

5. Jeg er hann: sagdi Jesús þá, Júdas siálfur stód flockunm hiá, øblugt var Drottins ordid þad, allir til jardar féllu í stad. Hvad hans óvini hreldi mest, huggar nú mína sálu best, í allri neyd þad auglýsest.

6. Þá eg fell edur hrasa hér, hærstur Drottinn vill reidast mér, þá segir Jesús, eg er hann, sem endurleysti þann syndarann, med mínu blódi og beiskri pín, brædi, fadir kiær! stilltú þín; eflaust er þad afsokun mín.

7. Diofull, synd og samvitskan íll, sálu mína þá qvelia vill, eins segir Jesús, eg er hann, sem afmá þína misgiord vann, líka sem vindur léttfær ský, lángt feikir burt, og siást ei því; á mig trú þú, svo ertú frí.

8. Þegar mig særir sótt eda qvøl, sorgleg fátækt og heimsins bøl, jeg veit þú segir: jeg er hann, Jesús sem lækna vill og kann, audsegd á himnum áttú víst, eymd þín og hrygd í gledi snýst, heiminn sigrad' eg, hrædstú síst.

9. A dauda-stund og dómsins tíd, Drottinn! þad skal mín huggun blíd, ord þitt er sama: eg er hann, sem inn þig leidi' í himna-rann, þjón minn skal vera þar eg er; því hefir þú Jesús lofad mér, gladur eg þá í fridi fer.

10. Jeg segi á móti, jeg er hann, Jesú! sem þér af hiarta ann, ord þitt lát vera eins vid mig, elska eg, segdú, líka þig, eilíft þad samtal-ockar sé, uppbiriad hér á jørdunne, Amen, eg bid svo skuli ské! Amen.

## 6. Psálmur.

### Um Júdasar koss og Kristí fángelsi.

Lagid er: Einn Herra eg best ætti.

Frelsarinn hvorgi flýdi, fiand-menn þá láu senn, Herrann beid þeirra hiun þídi, þeim leysdi á fætur enn. Hvørn helst

helst þeir hugsi ad finna, hann spyr, (sem lióst eg gét), jafnt sem fyrr Júd-ar inna: Jesúm af Nazareth.

2. Eg em hann, aptur sagdi, annad sinn Jesús hátt. Lærisveinunum lagdi, líknar ord þetta brádt: ef mín ydur lystir leita, þá látid þessa frí. Búinn var hann ad heita, hiálpræd-is ordi því.

3. Hér af má heyra og skilia, Herrans vors Jesú makt, ecki gat án hans vilia, á hann neinn hendur lagt. Vid mig þó hatri hreisi, heiptar-menn ill-giarner, enginn kann, utan hann leyfi, eitt skérda hár á mér.

4. Fodurnum hiarta hlýdinn, hann gafst á þeirra vald, sál mín, því sért óqvídin, siá þitt óhlýdnis giald, viliugur vild' hann bæta, víst er þín skylda audsien, ást og audsveipni mæta, áttú ad leggia igén.

5. Júdas kom fliótt sem kunni, kyss-andi Jesúm nú, mælti flárádum munni: Meistari, sæll vert þú! Herrann hóg-værdar ríkur, hann sagdi: þú minn vin! med kossi Son mannsins svíkur! Stódst nún því hefndin lin. 6. Svo

6. Svo munn eplid eina, aumlega giraati um sinn, fals-koss því feck ad reyna, Frelsari! munnur þinn; blíd-mælum diöfuls bægdu, svo bleckist eg ecki af þeim, heims hrecki líka lægdu, líf mitt og æru geym!

7. Audsien eru augum þínum, öll víel og launsvik hér, hritt þeim úr huga mínum, hreint skapa géd í mér, virdstú mig vin þinn kalla, verda lát raun þar á, holds brest og hræsni alla, hindra og rek mér frá.

8. J hættu og háska mikinn, hefir mig Satan leidt; o hvad opt eg verd svikinn! ei gét eg hiá því sneidt, Son mannsins svikum mætti, sannlega uppá þad, svik-anna háskinn hætti, hiá mér ei findi stad.

9. Munnur þinn (ad eg meina) minn-ist vid Jesúm bert, þá hold og blód hans hreina, hér fær þú, sál mín! snert. J Guds nafni ad þér gádu, géf honum ei koss med vél; í trú og ydran þig tiádu, tilbú þitt hiarta vel.

10. Þángad þegar ad stundu, þusti illrædis lid, liúfasta Lamb Guds bundu; lokid var öllum frid, hardsnún-um

um reipum reirdu, ránglætis míns hann gallt, Drottinn í dróma keirdu, dofnadi holdid allt.

11. Júdar þig Jesú! streingdu, jeg gaf þar efni til, syndir mínar þér þreyngdu, þess nú eg ydrast vil, glæpa-bond af mér greidir, og gef mér frelsid þitt, andlegum dofa eydir, sem á fell hiartad mitt.

12. Guds Son var gripinn hondum, gefinn svo yrdi eg frí, hann reirdist hordsum bondum, hlaut eg miskun af því, fiotur þúng og fángelsi, frekt lá, minn Herra! á þér, daudans og diofuls helsi, duttu því laus af mér.

13. Bid eg þín bondin hordu, bindi nú hvorn minn lid, frá alls-kyns glæpa giordum, og goldum heimsins sid, laus og lidugur andi, lífs medan dvelst eg hér, þér sé jafnan þiónandi: þessa bón veittú mér! Amen.

## 7. Psálmur.

### Um vørn St. Péturs og Malchusar eyra-sár.

Lagid er: Gædsku Guds vier prísum.

Lausnarans lærisveinar, þá litu atburd þann, og Júda athafnir einar,

er, allir senn spurdu hann: eigum vèr
nk ad slá, óvina sveit med sverdi? svo
èr ei þyngra verdi. Sál mín! hèr gior
id gá.

2. Ef þú áforma vildir, eitthvad, sem
andi' er á, þarfleg rád þiggia skyldir,
g þig vel fyrir siá, af því optlega skèr,
á, sem er einn í rádum, einn mætir
ada brádum, seint þá ad ydrast er.

3. En med því mannleg vitska, í morgu
áir skamt, á allt kann eck' ad gitska, sem
r þó vandasamt; kost þann hinn besta
iós: Guds ord fær sýnt og sannad,
vad sè þèr leyft eda bannad, þad skal
itt leidar-liós.

4. Pètur med svellu sinni, sverd úr
lídrum dró; hans trú'eg brædin brinni,
g beint í flockinn sló, Malchus hlaut
èr af tión, hann mist'hid hægra eyra,
oggid tók ecki meira, þessi var Bisk-
ps þión.

5. Lausnarinn lióst nam svara, lærі-
veinunum fyrst: látid þessa framfara,
rekast ad sinni lyst, Pètri svo sagdi
ú: sverds dauda sá skal sekur, sem
verd án leyfis tekur, sverd slídrá Si-
non þú.

6. Meinar þú Fadirinn mildi, mundi ei senda hér, ef eg þess óska vildi, Engla til fylgdar mér, fleir'enn tólf fylkingar? eda mun skyldt eg ecki, áskenktann kaleik drecki, sem mér þó settur var?

7. Svo mun uppfyllast ega, hvad er í Ritníng tiád, og sídan sannast mega, hvad síest fyrir laungu spád. Svo eptir sermon þann: eyra þiónsins áhrærdi, sem ádur Pétur særdi, læknad'ad heilu hann.

8. Sál mín! lærum og siáum, med sannri hiartans lyst, tvennslags sverds gloggt vid gáum, greina skal þar um fyrst: sverd Drottins Dómarinn ber, sverd egin-hefndar annad, sem ollum verdur bannad; þad kénnir Kristur hér.

9. Bid eg: hér gloggt ad gætir, gód Valdstiórn heidarlig! saklausann síst þú grætir, né siálfa meidir þig, vird sverd Guds vandlætis, blód skaltú því ei banna, burtsnid þú grein lastanna; merk dæmi Moysis!

10. Þitt sverd, sem þitt er egid, fyrir þína egin sok, skal ei úr skeidum dreg-

id,

id, skir eru þar til rök, Jesús það bannar bert, honum er skyldt þú hlýdir, högvær umberir, lídir, það móti þér er gért.

11. Ræn ei Gud sínum rétti, því reiknast hefndin hans, Valdstiórn til verndar-setti, vída um bygdir lands, ellegar ad því gá: sverd Drottins, sem hér nefnist, sannlega á þér hefnist, tión þitt tvöfaldast þá.

12. Malchus, sem misti eyra, merkir þá alla frí, sem ord Guds ecki heyra, ega þó kost á því, heyrn er þeim hægri slió, vinstri hlust heillri halda, hád og spélni margfalda, nóg géta numid þó.

13. Skálka-mark mátti kalla, Malchus hér fengi rétt; á Guds óvini alla, einkénni slíkt er sett, ord hans ei akta hér; jeg bid og jafnan segi: Jesú minn! láttú eigi, það merki siást á mér!

14. Eún finnur þú hér framar, Frelsarans dæmid best: hormúngar hættusamar, á honum láu mest, sitt traust þó setti hann, á Guds Födurs gædsku ríka, giör þú það, sál mín! líka, ef kross þig henda kann.

15. Qvøl sína Jesús kallar: kaleik áskenktann sér. Kroſs þinn og evmdir allar, eins máttú nefna hér; Því Drottinn drack þér til, fyrir þig þá hann píndist, svo þú, mín sál! ei týndist, gior honum giarnan skil.

16. Þú mátt þig þar vid hugga, hann þeckir veikleik manns, um þarftú ecki' ad ugga, ádryckiu skamtinn hans, vel þín vanqvædi sier, hid súrasta drack hann siálfur, sætar' og minn' enn hálfur, skérfur er skenktur þér.

17, Heipt mín' og hefndar næmi, hefir þú, Jesú! bætt, mér gafst manngædsku dæmi, þá Malchum fécstú grædt; eg þarf og einnin vid, eyrad mitt læknad vrdi, svo ord þitt heyri og virdi, Þídlega þess eg bid!

18. Hiálpa mér, Herra sæli! ad halda kroſs=bikar minn, svo mig ei undan mæli, né møgl'um vilia þinn. Eg bid: almætti þitt, vorkénni minni veiki, ef verda kann eg skeiki, hreíſstú þá hiartad mitt!

8. Psálm=

# 8. Psálmur.

Prédikun Kristi fyrir Gydíngum.

Lagid er: Sá friáls vid løgmál fæddur er.

Taladi Jesús tíma þann, til vid óvini sína, sem komnir vóru ad høndla hann: heyrum þá kénníng sína.

2. Sem til íllvirkia erud þér, útgengnir míg ad fánga; ádur gat enginn meinad mér, í musterinu ad gánga.

3. Daglega hef' eg sýnt og sagt, sannleiksins kénníng mæta; enginn gat hendur á mig lagt; ættud nú þess ad gæta.

4. Yfir stendur nú ydar tíd, uppfyld svo ritníng verdi, mirkranna geisar maktin stríd. Mæla svo Jesús gérdi.

5. Líúflyndi blessad Lausnarans, líttú hér, sál mín kæra! sá vill ei dauda syndugs manns, svoddan máttú nú læra.

6. Jesús þeim sýndi í sannri raun, sálar-heill, nád og frelsi, Guds Syni Júdar guldu' í laun, grimd, hatur og fángelsi.

7. Furda því, sál mín! enginn er, ei skalt því dæmi týna, þó veröldin launi vondu þér, velgiørd miog litla þína.

8. Gydínga dæmi skynia skalt, skil þig vid ódygd slíka, þacklæti fyrir góð-giörð gialdt, Gudi og mönnum líka.

9. Jeg læt mér þessu jafnstramt sagt, Jesú! af ordum þínum, enginn gat hend-ur á þig lagt, ad eginn vilia sínum.

10. Þann takmarkada tímans púnkt, tilsetti Fadirinn mildi, nær það ánaud-ar okid þúngt, yfir þig gánga skyldi.

11. Eins upphaf líka og endíng med, allrar hormángar minnar, Fadir himn-eski, er fyrirsied, í forsión miskunar þinnar.

12. Þessi nú tíminn ydar er, óvin-um Jesús sagdi; Herrans eg þetta mál-tak mér, í minni og hiarta lagdi.

13. Nú stendur yfir nádar-tíd, naud-syn er þess eg gætti, lídur mig Drott-ins bidlund blíd, brot mín svo qvittast mætti.

14. Ef eg þá tíd, sem Gud mér gaf, gálaus forsóma nædi, Drottins tími þá tekur af, tvímælin öll í brædi.

15. Því lengur, sem hans bidlund blíd, bedid forgéfins hefir, þess hardari mun heiptin stríd, hefndar þá Drott-inn krefur.

16. Guds vegna ad þér gæt, mín sál! glæpum ei lengur safna, giorum ydran, því meir enn mál, mun vera synd ad hafna.

17. Í dag vid skulum skipta' um skiótt, skal synd á flótta rekin; hvor veit nema sé nú í nótt, nádin í burtu tekin?

18. Talar Jesús um mirkra makt, merkid þad Valdstiórnendur, ydur skal nú í eyra sagt: umdæmid heims tæpt stendur.

19. Lióstid mirkrin burt leidir frí, med lióma birtu sinnar, varast ad skýla skálkum því, í skugga maktar þinnar.

20. Minstú ad mirkra maktin þver, þá mirkur daudans skalt kanna, í ytstu mirkrum enginn sier, adgreining hofdíngianna.

21. Mirkri léttari' er maktin þín, minst þess fyrir þinn dauda, þá Drottins hátignar dírdin skín, hún dæmir eins ríka' og snauda.

22. Fyrst makt heims er vid mirkur líkt, mín sál! haldt þér í stilli, varastú þig ad reida ríkt, á ríkis-manna hylli.

23. Drottinn Jesú! þá líssins liós, lýstú valdstiórnar-monnum, svo þeir, sem ráda yfir ofs, eblist ad dygdum sonnum.

24. Jesú! þín kalda qvala-stund, qvala-tíd af mér svipti, Guds barna gafst mér gledi-fund, gód vóru þau umskipti.

25. Mirkranna þreyngdi maktin þér, mig svo leystir úr vanda; qvalanna ytstu mirkur mér, mega því aldrei granda.

## 9. Psálmur.

### Um flótta læri-sveinanna.

Lagid er: Jesú Kriste! þig kalla eg á.

Þá lærisveinarnir sáu þar, sinn Herra gripinn höndum, og hann af fólki verstu var, vægdarlaust reirdur böndum, allir senn honum flýdu frá, forlétu Drottinn hreinann, í háska einann. Ad svoddan skulum vid, sál mín! gá, siáum hér lærdóm beinann.

2. Án Drottins ráda er adstod manns, í engu minsta gildi, sánýtt reyniſt opt fylgid hans, er frekast hiálpa skyldi; hvorr einn vill forda siálfum sér, ef syn-

snúist háski búinn, ad hendi snúiun, far
því varlega' ad fallvølt er, frænda og vina
trúin.

3. J sama máta sier þú hér, sál mín!
í spegli einum, ad hriggilegar sé háttad
þér, enn Herrans lærisveinum, þeir høfdu
leysi Lausnarans, lísi ad forda sínu, frá
sárri pínu, naudugir mistu návist hans,
nú gæt ad rádi þínu.

4. Hvad opt, Jesú! þér flúd'eg frá,
frekt á mót vilia þínum, þá glæpa-veg-
inn géck eg á, girndum fylgiandi mín-
um; forskuldad hafd'eg fyrir þad, flótta-
madur ad heita, til heliar-reita, en þú
virdtist mér' aumum ad, aptur í miskun leita.

5. Einn varstú, Jesú! eptir því, í ó-
vina látinn høndum, einn svo eg væri
aldrei í, eymd og freistingum vøndum,
allir forlétu einann þig, allt svo mig
hugga kynni, í mannraun minni. Eg bid:
Drottinn! lát ecki mig, einsamlann nock-
ru sinni.

6. Lærisvein, sál mín! siádú þann,
sem Jesú eptirfylgdi, ránglát úng-
menni ræntu hann, rétt nakinn vid

þau skildi. Bersnoggur flótti betri er, enn brædralag óréttinda, vid selskap synda, ávinníng lát þig engann hér, í þeirra flocki binda.

7. Burt þadan Jesúm færdi flíótt, flockur íllrædis-manna. Lamb Guds saklaust, þá leid ad nótt, leiddu þeir til qvalanna, miskunarlaus sú medferd bráд, mér virdist eptir vonum í nátt-mirkrunum, þeir hafa bædi hrakt og hriád, hrundid og þiakad honum.

8. Í daudans mirkrum eg dæmdur þræll, dragast átti til pínu, en þú tókst, Jesú Son Guds sæll! saklaus vid straffi mínu, þannig tilbióstú lífsins leid, líómandi sálu minni, þó líf hér linni, andláts qvølum og kaldri neyd, qvíd'eg því engu sinni.

9. Hraktu því svo og hriádu þig, Herra minn! íllsku þiódir, ad hér nú bæri' á høndum mig, heilagir englar gódir, mædusøm urdu mirkrin þér, mæta létu þig hørdu, og hindrun giørdu, Guds dírdar-liós svo lýsi mér, á lifandi manna jørdu.

10. Qvala-

10. Qvala-för, Jesú! þessi þín, sem þá geckstú einusinni, veri kraptur og verndin mín, svo veginn lífsins eg finni. Lát ecki diöful draga mig, í dofinleik holdsins blinda, til sekta og synda; eg bid af ást og alúd þig: ákésd hans burt ad hrinda.

## 10. Psálmur.

Um fyrsta ransak fyrir Caiphe.

Lagid er: Guds Son kallar: komid til mín.

Til Hannas húsa Herrann Krist, hardrádir Júdar leiddu fyrst; beisk frá eg bønd hann særi, honum strax þadan vísad var, vidtekt séck ei né hvíldir þar, mieg svo þótt mæddur væri.

2. Burt sendi því med beiskri pín, bundinn Caiphæ mági sín, Hannas vorn Herrann sæta; Høfud-kennimanns hærstu stétt, hafdi sá þetta árid rétt, Guds logmáls átti ad gæta.

3. Ur Himnaríkis hvíldar-stad, hofdum vid, sál mín! forskuldad, útrekin víst ad vera, en Jesús tók nú uppá sig, ónádan þessa fyrir þig; lof sé þeim liúfa Herra!

4. Hiartad bædi og húsid mitt, her-
bergi veri, Jesú! þitt, hiá mér þigg hvíld
þentuga, þótt þú komir med krossinn
þinn, kom þá blessadur til mín inn,
sagn' eg þér fegins huga.

5. Caiphas hafdi hér um spád,
hentugast mundi þetta rád, ad dæi
einn fyrir alla. Embættis mælti and-
inn þar, af því hiartad ei vissi par,
sannleik Guds sinnti valla.

6. Balaams dæmi eins var eitt, anda-
gift slík var honum veitt, spaklega túng-
an spádi, hann hafd' í sinni hreckia-rád,
hiartad fékk ecki sannleiks gád, því hann
fégirndinn þiádi.

7. O Jesú! lát þinn anda hér, aldrei
víkia í burt frá mér; leid mig veg líff-
ins orda, svo hiartad bæd' og málid
mitt, mikli samhuga Nafnid þitt, holds
girnd og hræsni forda.

8. Til Caiphas vóru komnir senn,
Kénni-valdid og Stiórnar-menn;
Biskupinn þegar ad bragdi, leitar
andsvars til Lausnarans, um læri-
sveina og kénning hans; enn Jesús
aptur sagdi:

9. Opin-

9. Opinberlega', en ecki leynt, í mustérinu kénd' eg beint, hvad spyr þú mig um þetta? kunngiøra mega þar um þér, þeir sem lærdóminn heyrdu' af mér, þá láttú þig leidrétta.

10. Sæt ad, mín sál! og siádú þar, Sonur Guds undir ransak var, krafdur þad qvoldid eina; á qvoldi hvoriu þú koma skalt, qvold-reikníng vid þig siálfa haldt, med qvold-offurs ydrun hreina.

11. Þú Guds Kénnimann! þenk um þad: þar mun' um sídir grenslast ad, hvornin og hvad hér kénndir; ad lærisveinum mun líka spurt, sem lét þitt gáleysi villast burt; hugsa gloggt hvar vid lendir!

12. Jesús vill, ad þín kénníng klár, kroptug sé hrein og opinskár, líf hvellum lúdurs hlióm, laun-smiadran oll og hræsnin hál, hindrar Guds dírd en villir sál, straffast med straungum dómi.

13. Vangætslan mín er margvíslig, mildasti Jesú! beidi' eg þig, vægdú veikleika mínum! forsómun enginn sanst hiá þér, fullnadar bót þad tel eg mér, styrk veit þú þiónum þínum.

14. Eins er hér einnig öllum rétt, alvarleg kénníng fyrirsett, ord Guds elski og læri: trúin innvortis ebli géd, einardleg játníng lika med, ávöxt hid ytra færi.

15. Biskups þión einn í brædi þó, blessadann Jesúm púftur sló, svo þad ritníngin segir, hógværlegt andsvar Herrann gaf, honum, sál mín! þad lær þú af, um sakleysi þitt ei þegir.

16. Hvart samvitskan Adam sló, íllann kinnroda féck hann þó, í fyrsta falli sínu: þess vegna Jesús höggid hast, hlaut ad lída og rödna fast, allra fyrst í hans pínu.

17. Drottinn Jesú! eg þacka þér, þetta leidst þú til frelsis mér; eg bid ástsemi þína: samvitsku slögin svida skiæd, á sálu minni þú mýk og græd, burttak þú blygdan mína!

## 11. Psálmur.

### Um afneitun Péturs.

Lagid er: Dagur í austri öllu.

Gudspialls-historian gétur, gripinn þá Jesús var, allir senn utan Pét-

Pétur, yfirgáfu hann þar, og lærisveinn einn annar, álengdar gengu hliódt, Herrans braut hrigdar sanna, harla dimt var af nótt.

2. Caiphas Kennimanni, kunnugur lærisveinn, inngengur ørt med sanni, úti stód Pétur einn, ambátt upplúka beidir, ókéndann Pétrum þá, í forsal til lídsins leidir. Lærdóm hér finna má.

3. Krossferli' ad fylgia þínum, fysir mig, Jesú kiær! vorkéndú veikleik mínum, þó verd' eg álengdar fiær, þá trú og þol vil þrotna, þreyngir ad neydinn vend, reis þú vid reyrinn brotna, og rétt mér þína hend.

4 Kolseld, því kaldt var nærsta, qveikt hafdi þræla lid, Pétur med stúrlan stærsta, stód hiá þeim logann vid, ambátt hann ein sprogsetti, af sér þad heyra lét: mun þessi mann, hún frétti, med Jesú af Nazareth?

5. Hann neitar hradt ad bragdi, hræddur vid ordin bíst, þann sig ei þeckia sagdi: þá gól nú haninn fyrst; ætlar sér út ad rýma, ønnur þerna hann sá, talar í annann tíma, til þeirr' er stódu hiá: 6. Af

6. Af Nazareth nú er þessi, nykominn Jesú med, hinnar géd trú' eg það hvessi, hvørr madur spýria réd: ert þú einn af hans sveinum? en Pétur neita vann; sagdi med eidi einum: aldrei þeckta eg hann.

7. Þridia sinn þar til løgðu, þiónar Caiphas bert, málfærid sumir søgdu, segir til hvørr þú ert; frændi Malchuss' réd mæla: mund' eg þig ecki siá, (gét eg sist grun mig tæla) í gardinum Jesú hiá.

8. Pétur med bliúgu bragdi, brádlega sagdi: nei! sór sig og sárt vidlagdi, svoddann mann þeckt' hann ei. Gløggt þegar giørdist þetta, gól haninn annad sinn. Síst mátti sorgum létta, sút flaug í brióstid inn.

9. Sál mín! þér fári forda, freklega voga sist, án leyfis Drottins orda, óstyrkt er holdid víst, þykist þú stødugt standa, stilla þinn metnad þarft, hvørr sér vogar í vanda, von er sá falli snart.

10. Adur í aldingardi, óhræddur Pétur var, kallmensku hugurinn hardi, hans sig auglysti þar; audvird ambátt hann

hreldi, ofmiog því ſkélfaſt vann, frá ſannleik ſídan feldi, ſama þig henda kann.

11. Kol-eldi qveiktum jafnaſt, kitl-andi veraldar priál, þrælar ſyndanna ſafnaſt, ſaman vid ſoſta-bál, fullir med fals og villu, fordaſtú þeirra alis, ætíd er med þeim illu, einfoldum búid ſlis.

12. Ambátt med hyldu bragdi, er þeſſi verold leid, morgum mein-ſnorur lagdi, miog á ſpott-yrdin greid, þhid med þrælum ſínum, þióna Guds laſtad ſær; ſtyrk mig med mætti þínum, mót henni, Drottinn kiær!

13. Eptir afneitun eina, út vildi Pét-ur gá, hugdi hann braut ſér beina, búna þeim ſolli frá. Þá kom eitt odru verra: umkríngdu þrælar hann, afſór ſinn ſæla Herra, ſér og formæla vann.

14. Hægt er hvorium ad ſtofna, í hættu og vanda-ſpil, forvitnis dælſkan dofna, dregur þar margann til, ógæfu gildran þraunga, greip ſkiótt þann kunn' ad ná, útkomu von ſéck aunga; ad því í tíma gá.

15. Opt má af máli þeckia, mann-inn hvorr helſt hann er, ſig mun fyrſt

ſiálf-

ann bleckia, sá med lastmælgi fer, góður af gedi hreinu, gódordur reyniſt víſt, fullur af íllu einu, íllyrdin ſparar ſiſt.

16. Hriggileg hroſun hendti, heilagann Drottins þión, ſyndin mióg ſárt hann ſpennti, ſálar var búid tión; hvad mun eg máttar-naumur, mega þá ſtandaſt vid, vangætinn, veſæll og aumur, vélum og hreckia-ſnid?

17. Í veraldar vondſku ſolli, velkiſt eg, Jeſú! hér, falli þad opt mér olli, óſtodugt holdid er, megnar ei mót' ad ſtanda, mín hreyſti náttúrlig, láttú þitt liós og anda, leida og ſtyrkia mig!

## 12. Pſálmur.

### Um ydrun Péturs.

Lagid er: Kom Andi heilagi.

Pétur þar ſat í ſal, hiá ſveinum inni, tvennt hafdi hana-gal, heyrt ad því ſinni.

2. Búinn var þviſvar þá, þvert hann ad neita, ſér Jeſúm ſælann frá. Sorg má þad heita.

3. Drott-

3. Drottinn vor veik sér vid, (víst um þad gétur), liúfur med líknar sid, og leit á Pétur.

4. Strax flaug í huga hans, (hvad þó síst vardi), Lausnarans ord og ans, í aldingardi.

5. Blygdadist brádt vid þad, brióst fullt af trega, geck út úr greindum stad, og grét beisklega.

6. Siá þú med sannri trú, sál mín ástkiæra! hvad framar hefir þú, hér af ad læra.

7. Hátt galar haninn hér, í hvers manns gédi, drígdar þá syndir sier, sem Pétur skédi.

8. Sárlega samvitskan, sekann áklagar, innvortis aumann mann, ángrar og nagar.

9. Fær hann sig friálsann síst, þó finnist hreldur, sem fugl vid snúníng snúst, þeim snaran heldur.

10. Víkia þó vilie hann, frá vondsku hætti, orka því ecki kann, af eginn mætti.

11. Upp þó sér ætli brátt, aptur ad standa, fellur hann þegar þrátt, í þyngri vanda. 12. Log-

12. Logmál Guds hrópar hátt, hana-gal annad, segir og sýnir þrátt, hvad sé þér bannad.

13. Þad þvíngar, þrúgar med, þad slær og lemur, sorgandi syndugt géd, særir og kremur.

14. Þad verkar sorg og sút, þeim seka manni, hiálpar þó engum út, úr synda banni.

15. Holdid þar þriótskast vid, og þykir illa, eykst á þann synda sid, svik, hræsni' og villa.

16. En Jesú álit skírt, anda Guds þýdir, sá giorir hægt og hírt, hiartad um sídir.

17. Lætur hann logmál bist, lemia og hræda, eptir þad ser hann fyrst, ad frida og græda.

18. Ord Jesú edla sætt, er hans verk-færi, helst fær þad hugann kiætt, þó hreldur væri.

19. Hann gésur hreina trú, hann fallinn reisir, hann veikann hressir nú, hann bundinn leysir.

20. Ei er í siálfs vald sett, (sem nockrir meina), ysirbót,' ydran rétt, og trúin hreina. 21. Hendi

21. Hendi þig hrösun bráð, sem helg- ann Pétur, undir Guðs áttú náð, hvört ydrast gétur.

22. Heimska er vesta víst, við það að dyliast, þú munir þá þér lítst, við þrautir skiliast.

23. Ef Jesús að þér snýr, með ást- ar hóti, líttú þá huga hír, honum á móti.

24. Gráta skalt glæpi sárt, en Gudi trúa, elska hans orðið klárt, frá illu snúa.

25. Ohýt er ydran tæp, að því skalt hyggia, ef þú í giordum glæp, girnist að liggia.

26. Pétur þá formerkt fékk, fall-hrös- un slíka, úr synda-salnum géck, svo giordú líka.

27. O Jesú! að mér snú, ásiónu þinni; siá þú mig særdann nú, á sálu minni.

28. Þegar eg hrasa hér, hvað miög opt sannast, bend þú í miskun mér; svo mieg' eg vidkannast.

29. Opt lít eg upp til þín, augum grátandi, líttú því, liúft til mín, svo leysist vandi!

13. Psálm-

# 13. Psálmur.

## Um Caiphasar Dóm.

Lagid er: Jesús Guds Son eingetinn.

Foríngiar Presta fengu, fals-vitni mørg tilsett, fúslega fram ad gengu, fullir med svik og prett, samhlióda urdu eigi, uppdiktad margt þó segi, Jesús þá þagdi slétt.

2. Lær þú, ef lygum mætir, lífs-reglu, sál mín! hér, med forsi og þióst ei þrætir! þrálega svo tilber, hógvær þogn heiptir stillir, heimsk-ordur sannleik spillir, opt fyrir siálfum sér.

3. Hirdt' aldrei hvad, sem gildir, ad hætta' á ósatt mál, hvørt veria' edur sækia vildir, verdur þad morgum tál; munnur sá laungum lýgur, frá luckn og blessun hníaur, hann deydir sína sál.

4. Sannleiks vitni þó segi, sekann mig Gudi hiá, óttast þarf eg nú eigi, afsokun hef' eg þá: liúgvotta lýgi megna, leid Jesús minna vegna, klogun mig keypti frá.

5. Caiphas frétti fyrstur, falsklega Herrann ad: siálfur hvørt sé hann Krist-

Kristur? og svo enn framar qvad: vid sannann Gud eg þig særi, ef Sonur hans ert' hinn kiæri, segdú oss satt um þad.

6. Jesús játar ad stundu, jafnframt því svo nam tiá: Son manns sins siá þeir mundu, sitia þadan í frá, til Kraptarins hægri handar, og hér eptir kománda, skiærasta skýi á.

7. Kénnimann reif sin klædi, qvad: slíkt Gudlastan er! adspyr med ógna brædi: um þad hvad haldid þér? allt Rádid undirtekur:- er hann víst dauda sekur, svoddan samþyckium vér.

8. Jesús ei ansa hirdti, ádur þá logid var, Guds Nafn þó giarnan virdti, gaf því Caipha svar, lygd heims þó litid sætir, Lausnarans dæmis gætir, leita Guds lof-dírdar.

9. Hygg ad og herm hid sanna, hvenær sem til er reynt, hrædst ei hótanir manna, haldt þinni játníng beint, gæt vel ad geymir þetta, Guds ord og trúna rétta medkéndú lióst og leynt.

10. Caiphass' logsogn leida, lært hafa margir enn, hvad sem hofdíngiar beida, hin-

hinir álykta senn, vinskap sig villa láta, viliandi raungu játa; fordíst þad fróm-ir menn.

11. Sú er mín huggun sama, sem þín var, Jesú minn! krossinn þá ad vill ama, offókn og hormúng stinn, hiá þinni hægri hendi, hér þó ad lífid endi, fagn-adar nægd eg finn.

12. Þér til Gudlostun lagdi, liúg-andi Kénnimann, dauda sekann þig sagdi. Sannlega úrskurd þann, átt'eg ad heyra heldur, hardt med réttu sakfeldur, víst eg nóg til þess vann.

13. Andlegt vald einum rómi, úr-skurdar dáudann þér; Drottinn í nád-ardómi, dæmir því lífid mér. Þacka eg elsku þinni, þú keyptir sálu minni, fríun og frelsi hér.

## 14. Psálmur.

### Um þiónanna spott vid Kristum.

Lagid er: Allfagurt liós ofs birtist brátt.

Eptir þann dóm sem allra fyrst, and-legir dæmdu um Herrann Krist, hafa þeir, þvíad þá var nótt, þegar til hvíld-ar gengid, skiótt.

2. Drott-

2. Drottinn vor eptir þreyttur þar, þrælum til gætslu fenginn var; giørdi ad honum gis og dár, gudlausra manna flockur þrár.

3. Hádúng, spottyrdi, hróp og brixl, hvørr lét med ødrum gánga' á víxl, hræktu og slóu Herrann þar; hann þó á medan bundinn var.

4. Siá þú og skoda, sála mín! saklausa lambsins beisku pín, hugsa vandlega um þad allt, af þessu hvad þú læra skalt.

5. Hann, sem ad nætur-hvíld og ró, hvørri skepnu af miskun bió, í sinni ógna eymda stærd, engann kost feck á neinni værd.

6. Hvíldar-nótt marga hef' eg þád, Herra Jesú! af þinni nád; qvøl þín eymdum mig keypti frá, kannast eg nú vid gædsku þá.

7. Nær, sem eg reyni sorg og sótt, seinast adkémur daudans nótt, nætur-qvala, sem neyddu þig, nióta láttú þá, Jesú! mig.

8. Samvitsku slog og Satans hád, sefi Jesú! þín blessud nád, ofbod daud-

ans og andláts pín, aftaki' og mÿki gædſkau þin!

9. Margur (og víſt þad maklegt er), mig þeſſum ſkálkum formæler, þó finnaſt nockrir hér í heim, ad hegdun allri líkir þeim.

10. Hvad giora þeir, ſem hér á jørd, hafa ad ſpotti Drottins ord, liſa í glæpum lióſt til ſanns, laſta og forſmá þióna hans?

11. Sá, ſem Guds nád og ſannleikann, ſier, þeckir, veit og ſkynia kann, kukl og fiolkingi kynnir ſér, Caiphas's þrælum verri er.

12. Soninn Guds ecki þecktu þeir, því ſyndga hinir lángtum meir, ſem kallaſt vilia kriſtnir beſt, Kriſtum þó laſta allra meſt.

13. Hræſnarar þeir, ſem hrecki' og ſynd, hylia þó undir frómleiks mind, líkiaſt þeſſum, ſem Lauſnarann, lomdu blindandi' og ſpiodu hann.

14. Hvorium, ſem ſpott og hædn' er kiær, hann gengur þeſſum ſelſkap nær, forſmán gudrækins fátæks manns, fyrirlitníng er Skaparans.

15. O!

15. O! vesæll madur! ad því gá: eptir mun koma tími sá, sama hvad nidur sádir hér, siálfur án efa upp þú skér.

16. Ef hér á jörd' er hróp og hád, hædni og gudlast nidursád, uppskorid verdur eilíft spé, agg og forsmán í helvíte.

17. Ætla þú ecki, aumur mann! afkomast muni strafflaust hann, sem Soninn hefir hér hædt og spiad, horfi Fadirinn uppá þad.

18. Hvad Jesús nú um nætur-skeid, naudstaddur hér af mönnum leid, ógudlegur um eilífd þá, af íllum dioflum lída má.

19. Okéndum þér, þó aumur sé, aldrei tillegg þú hád né spé, þú veitst ei hvorn þú hittir þar, heldur enn þessir Gydingar.

20. Siálfann slær mig nú hiartad hart, hef' eg án efa mikinn part, af svoddan íllsku ástundad, audmiúklega eg medgeng þad.

21. Sád hef'eg nidur synda rót, svívirding mín er mörg og liót, uppskérutímann óttast eg, ángrast því sálin nærsta miög.

22. Herra minn Jesú! hörmúng þín, huggun er bædi' og lækníng mín, sakleysi víst þú sádir hér, sælunnar ávöxt gafstú mér.

23. Blód-dropar þínir, blessad sád, ber þann ávöxt, sem heitir náð, þann sama Gud mér siálfur gaf, sáluhiálp mín þar sprettur af.

24. Hæddur varstú til heidurs mér, hogg þín og slög mín lækníng er, aldrei mun diöfull ega vald, á mig ad leggia synda-giald.

25. En þér til heidurs aptur á mót, ydrast vil eg og giora bót, holds vilia giarnan hepta minn. Hiálpi mér, Jesú! kraptur þinn!

## 15. Psálmur.

### Um rádstefnu Prestanna yfir Kristó.

Lagid er: Kristi er koma fyrir hondum.

Mjög árla uppi vóru, Öldúngar Júda senn, svó til samfundar fóru, fyrstir þó Kénnimenn, í rádslag létu leidast, (líkar þad öllum vel), hvörnin þeir gætu greidast, Guds Syni komid í hel.

2. Heimtu med heiptar-lundu Herrann vorn til sín brátt, ordsøk því enga fundu, allir senn mæltu hátt: seg oss ef ert þú Kristur, einasti Son Guds sá. Grædarinn gædsku lystur, gaf andsvar þar uppá:

3. Þó ydur eg þad segi, ecki samt trúid þér, andsvarid mér og eigi, ef eg spyr nockurs hér; Mannsins Son siáid sitia, senn hiá Guds hægri hlid, í skÿi mun einninn vitia, aptur med dírdar sid.

4. Ertú Guds Son, þeir søgdu? svaradi Drottinn: iá! diarfir þann dóm á løgdu: Dauda-madur er sá. Uppstódu strax ad stundu, stríd þeim í hiarta brann, Frelsarann fiøtrum bundu, færdu Pilato hann.

5. Hér máttú, sál mín! sanna, svo gengur þad til víst, ástundan illvirkianna, umhyggiu vantar síst, árla þeir blundi bregda, binda fast øll sín rád, klóklega hreckium hegda, hvorr sem þess fengi gád.

6. En þú, sem átt ad vera, útvalinn Drottins Þión, verk hans og vilia giøra, og varast þitt sálar-tión, andvara eng-

ann hefir, umhyggiu-lítill síest, vid glis heims gálaus sefur. Gud nádi svodd-ann brest!

7. Margir upp árla rísa, ei géta sofid vært, eptir aud heimsins hnísa, holds gagnid er þeim kiært; sálin í brióstí sofn-ud, synist ad mestu daud, til allra dygda dofnud, sem Drottinn helst þó baud.

8. Forsiónar Verk-menn vísir, vín-gardi Drottins í, fyrst þá dags-liómimm lýsir, liúst bid eg giæti ad því, um sitt embætti hyggi, árla giord bænin sé, id-iulausir ei liggi, í líkamans giálífe.

9. Haturs-menn Herrans vaka, hugs-andi ad giora tión; eptir því átt ad taka, ef ertu hans trygda-þión: viljer þú vid þeim sporna, og varast þeirra hád, árla dags alla morgna, vid ord Guds haltu rád.

10. Þenk nú í þínu hiarta, þar næst í annann stad, hvar um Herrann réd qvarta, hyggia máttu þar ad: ordum hans ecki treystu, illgiarnir Júdar þeir, úr spurning engri leystu, æ því vestnudu meir.

11. Hvorr trúir nú hardt þó hóti, Herrann syndugum lid? all-fæstir inna á móti,

móti, ydrunar svorin blíd; hirtíngar hiálpa ecki, heimur veſtnandi ser, blindleikinn trú eg oſs blecki, búid ſtraff nálægt er.

12. Víſt er eg veikur ad trúa, veitſtú þad, Jesú! beſt, frá ſyndum ſeinn ad ſnúa, svoddan mig ángrar meſt; þó framaſt þad eg megna, þínum ordum eg vil, treyſta og giarnan gégna; géf þú mér náð þar til.

13. Þar nærſt ad þeſſu gætir, þad er og lærdóms grein, ef þú órétti mætir, afſokun dugir ei nein, hafdú þá bidlund híra, Herrann mun til þín ſiá, lát þolgéds dæmid dýra Drottins þig hugga þá.

14. Mér er, ſem í eyrum hliómi, úrſkurdur Drottins ſá, árla á efſta dómi, upp þegar daudir ſtá, afſokun ei mun ſtoda, andſvor né ſpurníngar, ſá ſtendur víſt í voda, ſem verdur ſekur þar.

15. Hér er nú koſtur ad heyra, Herrann taland' í náð, opni, Jesús! mitt eyra, ſvo ad því fengi gád; hógvær vors bata bidur, bleſſadur þeſſa tíd, annars heims er hann ſtrídur, ollum forherdtum líd.

16. Árla úrskurdinn lögdu, á þig Gydíngar þó, Jesú! og sekann sögdu, seldu þig Pilato: árla á effsta degi, affsokun gildir sú, til dauda eg dæmist eigi, Drottinn, þess minnist þú!

17. Árla dags uppvaknadur, ætíd eg minnist þín, Jesú minn hiálpar hradur! hugsa þú æ til mín; árla á effsta dómi, affsokun vert þú mér, minstu þá Frelsarinn frómi, hvad fyrir mig leidstu hér!

## 16. Psálmur.

### Um Júdasar ydrun.

Lagid er: Konúng David, sem kiendi.

Júdas í girndar grádi, af Gydíngunum fyrst, þriátíu penínga þádi, því sveik hann Herrann Krist; lióst þegar líta vann, Drottinn var nú til dauda dæmdur og þúngra nauda, ydradist eptir hann.

2. Greidt í musterid gengur, (greinir svo Ritníng frá), um silfrid sinnti' ei lengur, senn vill þad Prestum fá, sagdi med sárum mód: o! hvad eg giørdi ílla, þá yfir mig kom sú villa, ad sveik eg saklaust blód!

3. Lid-

3. Eidsemd Prestarnir lögdu litla, sem von var ad, hardlyndir honum sögdu: hvad egium vér med pad? pú mátt einn siá um þig. Silfrinu' á gólfid grýtti, géck padan, miøg sér flýtti, og hengdi siálfann sig.

4. Rádstefnu Herrar héldu, hættu par seinast vid, fyrir akur siálfir seldu, silfrid Leir-kéra smid. Adur sagt um pad var, í spádóms sögnum sønnum: sá var vegferdar-mønnum, géfinn til greftrunar.

5. Siá hér, hvad illann enda, ótrygd og svikin fá: Júdasar líkar lenda, leiks-brødur sínum hiá, andskotinn illsku slár, enn hefir snoru snúna, snøgglega peim tilbúna, sem fara med fals og dár.

6. Otrú sinn eginn Herra, ætíd um hálsinn sló, enginn féck af pví verra, enn sá meinlausum bió, forrædi, fals og vél, Júdas pví hengíng hendti, hann folskum til sín bendti, eins og Achitóphel.

7. Fé-girndin Júdam feldi, fyrst var hans adtekt sú, Guds Son Gydíngum seldi, gleymdi pví æru' og trú, svo til um sídir géck, kastadi kepptum audi, på

 gvaldi

qvaldi sorg og daudi, huggun alls enga féck.

8. Undir=rót allra lasta, ágirndin köll=ud er, frómleika frá sér kasta, fiárplógs=menn ágiarner, sem freklega elska féd, audi med okri safna, andlegri blessan hafna, enn setiá sál' í ved.

9. Annadhvørt er í vonum, audur=inn fagur nú, hafnar þér, ellegar hon=um, hriggur burtkastar þú, þá daud=inn þreyngir ad, ágirndin ótæpt svelgir, af því sálina velgir, í köldum qvala=stad.

10. Falsi og fégirnd rángri, forda þér, sál mín! blíd, svo mætir ei ógn né ángri, þá adfer daudans tíd, vird litils veraldar plóg, hvørr sá sér lynda lætur, þad lénar Drottinn mætur, sá hefir alls nægta nóg.

11. Opt Jesús ádur hafdi, áminn=ing Júdas giort, hreckvísin hiartad vafdi, hann hélt þad einkis verdt, nú kom þar einnig ad, tilsøgn hatadi hreina, hugg=un féck því ei neina, varastu víti þad.

12. En hvad framleiddi hann illa, ádur líferni sitt, þessi þó var hans villa, verri enn allt annad hitt, ad hann ør=

væntíng med, sál og líf setti' í vanda. synd á mót' heilogum Anda, held eg hér hafi skéd.

13. Í Drottni' ef villtú deyja, Drottni þá lifdú hér, til ills lát ei þig teigia, ord Guds sé kærast þér, sæll er sá svo vid býst, en ef þig ófall hendir, aptur í tíma vendir, undandrag ydrun síst.

14. Brot þín skalt bljúgur játa, en bid þó Gud um nád, af hiarta hrigg-ur gráta, en heilnæm þyggia rád: um-fram allt þenktú þó: Son Guds bar þínar syndir, og svo þú miskun findir, saklaus fyrir sekann dó.

15. Drottinn! lát mig ei dyliast, diarf-lega syndir vid, þó hér um stund megi hyliast; Herra trúr! þess eg bid: nær heimi fer eg frá, orvænting ei mér grandi, ord þitt og sannleiks Andi, hiarta mitt huggi þá! -

## 17. Psálmur.

### Um Leirkera-smids akurinn.

Lagid er: Fadir! á himna hæd.

Svo sem fyrr sagt er frá, silfur-pen-ínga þá, hvorier loks Júdas hreldu, Höfud-prestarnir seldu. 2. Og

2. Og keyptu einn (til sanns) akur Pott'makarans, þar' má fullt frelsi hafa, framandi menn ad grafa.

3. Þar finst ein þýding sín, þess gættú, sála mín! af Guds áſettu rádi, um þad Zacharias spádi.

4. Líkist Leir-kéra-smid, líknsamur Drottinn vid; sem fyrr Esajas sagdi, siálfur þad rétt útlagdi.

5. Af leir med lífsins krapt, lét hann mannkynid skapt, hrein kér til heidurs setur, hin onnur lægra metur.

6. Drottinn einn akur á, er honum falur' sá, minstú, hann miskun heitir, mæddum líd huggun veitir.

7. Jesús einn er sá mann, sem akurinn keypti þann, en hans blód-dropar blídir, borgunar-gialdid þýdir.

8. Framandi fólkid þad, sem feck ei neinn hvíldar-stad, erum vér, sorgum setnir af syndugu' edli gétnir.

9. Illskunnar edlid vort, útlenda hefir giort, oss frá eilífri gledi, í Adams falli þad skédi.

10. Sálin í útlegd er, æ medan dvelst hún hér, í holdsins hreysi naumu, haldin fángelsi aumu.

11 Daud-

11. Daudinn med dapri sút, dregur um sídir út, hana, þá hreysid brotnar, holdid í jordu rotnar.

12. Eins og útkastad hræ, (ef eg rétt skyniad fæ), hiálparlaus sál má heita, hvíldar kann sér ei leita.

13. Hættu og hormúng þá, Herra minn Jesús sá, ond vora' af ást og mildi, úr útlegd kaupa vildi.

14. Fadirinn falt þad lét, fridar-stad sálum hét, ef Sonurinn giald þad greiddi, sem Guds réttlætid beiddi.

15. Opnadi siódinn sinn, Sonur Guds, Jesú minn! húdstrýktur, qvalinn, krýndur, á krossi til dauda píndur.

16. Blód-dropar dundu þar, dírasta giald þad var; keyptann akur því eg-um, óhræddir deyia megum.

17. Hér þegar verdur hold, hulid í jardar mold, sálin hrigdarlaust hvílir, henni Guds miskun skýlir.

18. En þú skalt ad því gá: akursins greftran þá, engir utan þeir fengu, í Jerúsalem gengu.

19. Kristnin Guds hér um heim, heitir Jerúsalem, í han' innkomast hlýtur, hvorr, sem miskunar nýtur.

20. Í henni hvorr einn sá er, á Jesúm trúir hér, skírdur og alla vega, ydrun giörir daglega.

21. Oqvídinn er eg nú, af því eg hef' þá trú: miskun Guds, sálu mína, mun taka í voktun sína.

22. Hvörnin sem holdid fer, hér þegar lífid þver, Jesú! í umsión þinni, óhætt er sálu minni.

23. Eg lofa, Lausnari! þig, sem leystir úr útlegd mig, hvíld næ eg nádarspakri, nú í miskunar akri.

24. Þú gafst mér akurinn þinn, þér géf eg aptur minn, ást þína á eg ríka, eigdú mitt hiartad líka.

25. Eg géf og allann þér, æ medann tór' eg hér, ávoxtinn ydiu minnar, í akri kristni þinnar.

26. Eins bid eg aumur þræll: ad unnir þú, Jesú sæll! sidnum líkama mínum, legstad í akri þínum.

27. Hveiti-korn þecktú þitt, þá upprís holdid mitt, í bindini barna þinna, blessun lát þú mig finna!

# 18. Psálmur.

## Um ákløgun Gydínganna fyrir Pílató.

Lagid er: Sælir eru, þeim siálfur Gud.

Arla, sem gloggt eg greina vann, med Guds Son bundinn fara, Prestarnir, svo ad píndist hann, til Pílatum Landsdómara; í þíng-hús inn, þad sama sinn, sagt er þó enginn kæmi, svo ecki meir, saurgudust þeir. Siá hér hræsninnar dæmi.

2. Inngáng um húss-dyr Heidíngians, héldu þeir synd bannada, enn saurgast á blódi saklauss manns, syndist þeim engann skada. Heims bornum hér, ó-virdíng er, aumstøddum hiálp ad veita, Guds ords forakt, ágirnd og prakt, enginn misgiørd skal heita.

3. Pílatus, sem þad formerkt féck, fyrst ei þeim metnad sætti, án dvalar siálfur út því géck, embættis skyldu gætti, sakargift þá, vill fulla fá, framborna af þeirra munni, dárskapar? yrdin sliót, drambsemi mót, Dómarinn finna kunni.

4. Lát þér ei vera afmán ad, ef þú vilt frómur heita, af Pilato lióst ad læra þad, sem loflegt er eptir ad breyta, ránglætid hans, þess heidna manns, haldt þér minkun tvøfalda; þeim midur fer, enn honum hér, hvørr vill þann Kristinn halda?

5. Allitid stórt og hefdar-hátt, hrædast skyldir þú ecki, sannleikans gæta ætid átt, enginn kiass-mál þig blecki. ærn-girnd liót, hofmódug hót, hæfir síst Yfir-mønnum, dramblátum þar, þú géf andsvar, þó byggt á rokum sønnum.

6. Oldúngar Júda allra fyrst, uppbáru sok þrefalda: fólkinu þessi frásnýr víst, fyrirbýdur ad gialda, Keisarans skatt, þad seginn vér satt; siálfur vill Kóngur heita; og Kristur sá, sem koma á, qvittun og frid ad veita.

7. Hér koma fram þau réttu rok, rædu og þánka minna! þér, Jesú! géfin var þrefeld sok, þad kann eg glogt ad finna; þrefaldleg sekt, mig þiádi frekt, þar um eg klagast mætti: þrefalda stygd, og þúnga lygd, þú leidst med sogdum hætti.

8. Frá-

8. Fráfnúid Gudi allt mitt er, edlid og lif sáneyta, odrum því géf eg opt af mér, ill dæmi svo ad breita; en hér á mót, med elsku hót, oll Guds born rétt því trúa, frá bolvun, deyd, diofli og neyd, Drottinn réd lidnum snúa.

9. Gudi átt eg ad greida frí, giald, hlýdni og þackar-skyldur, ránglega hef eg haldid því, hondlad sem þræll ógildur: audsveipnin þín, fyrir ollum skín, ástsemdar Herrann kiæri! þú baudst: géfid, (gafst siálfur med), hvad Guds og Keisarans væri.

10. Sannlega hef eg hrokad mér, hærra enn vera skyldi, bod og skipun míns Herra hér, haldid í minsta gyldi; Kóngdóm í heim, og heidri þeim, hafnadir þú og flýdir, hátignin þín, á himnum skín, hún mun birtast um sídir.

11. Rægdur varstú fyrir ránga sok, réttláti, Jesú mildi! uppá þad oll mín íllsku rok, afplánud verda skyldi; áklogun sú, sem þoldir þú, þess bid eg Herrann frómi, sé mitt forsvar, þá finst eg þar, fyrir þeim stránga dómi.

# 19. Psálmur.

## Játníng Krístí fyrir Pílató.

Lagid er: Mitt Hjarta! hvar til hriggist þú.

Hýdíngar höfdu af hatri fyrst, hardlega klagad Jesúm Krist, sem ádur sagt er frá, Landsdómarinn giordi' ad gá, gloggt hvad þyddi framburdur sá.

2. Áklogun fyrsta andleg var, um þad Pílatus sinnt' ei par, önnur um skylduskatt; hann vissi vel þeir sögdu' ei satt, svoddan málum þegiandi hratt.

3. En sem þeir nefndu Kónginn Krist, kom honum þá til hugar fyrst, hvad ádur heyrdi' og nam, af Júdum mælt um Messiam, ef mætti ské þad kæmi nú fram.

4 Pílati sinni' í sumum finst, sem um Guds dirkun hugsa minst, Hofdíngium hræsna tídt, undirsáta frelsid frídt, siár-plógs giarnir rækia nú lítt.

5. Hirdstiórinn spurdi Herrann þá: hvört hann sé Júda Kóngur sá? en Jesús aptur tér: talar þú svo af siálfum þér, eda sögdu adrir þvílíkt af mér?

6. Þá vard Pílati þelid kallt, þig hatar, sagd' hann, fólkid allt, hvad

illt

illt hefir þú giört? aptur Jesús ansar
bert: er það nærsta þenkingar verdt.

7. Mitt ríki' er ecki hédan af heim,
hardt mundi annars móti þeim, strida
minn maktar her, sem nú mig seldu'
í naudir þér, svo nædu ecki Gydíng-
ar mér.

8. Pilatus aptur ansa vann: ertú
þó Kóngur? sagdi hann. Játadi Jes-
ús því, hingad barst eg heiminn í,
ad herma skyld' eg sannleikann frí.

9. Hvør af sannleiknum siálfur er,
sá mína røddu heyrir hér. Hædnis-
svar hinn til fann: hvad er sannleik-
ur? sagdi hann; svo gieck burt med úr-
skurdinn þann.

10. Hér máttú, sál mín! heyra fyrst,
Herrann Jesús er Kóngur víst, þó ecki'
ad heimsins hátt, svoddan vel þú at-
huga átt, það eykur gledi hiartanu þrátt.

11. Kóngs-tign þín, Jesú! eilíf er,
allir þyggia sín vold af þér, hofdíngiar
hér um heim, þú lénar, géfur, lánar
þeim, løndin, ríki, metord og seim.

12. Fyrir þinn krapt og frelsis hønd,
forsvara Kóngar ríki' og lønd, sem er
þeim

þeim undirlagt, en móti diofli' og dauðans makt, duair engin hofdíngia prakt.

13. Þú hefir sigrad synd og deyd, siálfann diofsul og vítis neyd, hádir eitt herlegt stríd, allann svo þinn leystir líd. Lof sé þér um eilífa tíd!

14. Andlegt þitt ríki og eilíft er, ord sannleiks- því rétt stiórnar hér, þinn veldis-vondur sá, óvini slær mér alla frá, í þeim krapti sigra eg þá.

15. En fyrst þitt ríki andlegt var, um þad heimurinn sinnt'ei par, hann fann ei hofmód sinn, hiá þér, Jesú Herra minn! hatadi allann góðvilia þinn.

16. Undrast því, sál mín! ecki þarst, þó adkast veraldar lídir margt, þar um þér þenkia ber, ertú nú í útlegd hér, annars heims þitt fødurland er.

17. Sannleika-Kóngsins sannleiks-raust, sá þarf ad elska hræsnislaust, sem er hans undir-mann, því slægd og lýgi hatar hann, hreinhiortudum miskunar ann.

18. Ef þú, mín sál! í Gudi glodd, girnist ad heyra Kóngsins rodd, gættú þá giorla hér: hvad boda Drottins Þiónar þér, þeirra kénníng raustin hans er.

19. Ransaka, sál mín! ord þad ert, ad verdur spurt: hvad hefir þú giört? þá Herrann heldur dóm, hiálpar engum hræsnin tóm, hrein sé trú í verkunum fróm.

20. En sókum þess þú ei saklaus ert, siálfa spyr þig: hvad hefir þú giört? um hvorn umlidinn dag; ydrun gior og grát þinn hag, Guds Son bid þad færa í lag.

21. Allt hef'eg, Jesú! illa giört; allt þad ad bæta þú kominn ert, um allt því eg qvittur er; allt mitt líf skal þióna þér, þar til, bid eg, hiálpa þú mér!

## 20. Psálmur.

### Önnur áklögun Gydínga fyrir Pílató.

Lagid er: Ovinnanleg borg er vor Gud.

Pílatus hafdi prófad nú, píslar-sök Jesú gëfna, klén virdtist honum Köngs-tign sú, þá Kristur sannleik réd nefna, heims sannleik heidra létst, hæddi Guds sannleik mest, sannindin elska ber, ord Drottins láttú þér, kiærast þó allra efna.

2. Jafn-

2. Jafnódt þá gánga Jarlinn réd, til Júda út ad bragdi: enga sök þessum Manni med, má eg finna, hann sagdi; Gydíngar heldur hardt, Herrann kløgudu um margt, med ædi, ógn og dramb, eins rétt sem meinlaust lamb, Lausnarinn liúfur þagdi.

3. Hann hefir uppæst lýdinn lands, lengi mjøg vída kéndi, frá Galilæa og svo til sanns, um sídir allt híngad vendi. Pílatus hugdi hér, hrinda þeim vanda' af sér, Heródes hafdi því, hirdstiórn þeim parti í, til hans því Herrann sendi.

4. Fyrir mig, Jesú! þoldir þú, þiáníng og beyska pínu, hiartad gledst því eg heyri nú, hrósad sakleysi þínu: syndin lá sárt á mér, sök fanst enginn hiá þér, svo er sakleysi þitt, sannlegá ordid mitt, vid málefni tókst þú mínu.

5. Logmál Drottins þá hefndum hardt, hótar mér eptir vonum, aptur, minn Jesús ansar snart: engin sök finst med honum, sakleysi mitt til sanns, segi' eg nú ordid hans, engin áklogun fliót, orka skal neitt á mót, mínum þol-lyndis þiónum.

6. Onyt-

6. Ónytiu-hial og mælgin mín, mér til falls koma ætti; en, Jesú! blessud Þögnin þín, það allt fyrir mig bætti, skylda mín aptur er, eptir ad breyta þér, þegiand' í þíóri trú, þola, nær líd eg nú; þorf væri þess eg gætti.

7. Pílatus meinti mannvits-slægd, mundi óbrigdul standa, koma vill því med kiænsku-nægd, Kóng Heródi í vanda. Kunna þá adferd enn, allmargir veraldar menn; bid Gud, og gæt þín vel, giarn er heimur á vél, gálausum svikinn granda.

8. Kross-gángan, Jesú! þessi þín, þar fyrir eflaust skédi, svo hvílast mætti sálin mín, sætt í eilífri gledi. Embættis ómak lángt, opt þó mér finnist strángt, til loss og þócknunar þér, það vil eg giarnan hér, líða med liúfu gédi.

## 21. Psálmur.

### Um Heródis forvitni og hvíta klædid.

Lagid er: Jesú Kriste! þig kalla' eg á.

Þegar Heródes Herrann sá, hann vard miøg gladur nærsta, af hon-

honum heyrt hafdi og helst vill fá, hans ásynd líta glæsta: forvitinn mørgu frétti ad; fyrir holdsins kapp á lagdi, med bistu bragdi. Jesús tók ecki undir þad, vid øllum spurníngum þagdi.

2. Margir finnast enn hér um heim, Heródis líkar réttir, Guds ord er skémt og gaman þeim, sem glens edur nýiar fréttir, forvitnin holdsins hnýsir þrátt, í Herrans leyndardóma, med sýrn ei fróma, aumri skinsemi ætla ofhátt, aldrei til skilníngs koma.

3. Mannvits diúpfindni og menta glis, margir þá vilia reyna, ad ordi Drottins þeir giøra gis, gaman loflegt þad meina. Varastú, sál mín! vitin reynd, vird þú í hærsta gildi, þá miklu mildi, alvarlega med gódri greind, Gud vid þig tala vildi.

4. Gud giørir ecki ad gamni sér, glæpa-monnum ad hóta, kalls-mælgi honum og engin er, ad þú megir misk-un hlióta; audmiúklega med allri gát, áttú úm slíkt ad ræda, og fleiri fræda, en af þér heyrast aldrei lát, ord Drottins skulir þú hæda.

5. Heyr'

5. Heyr'eg um þig, minn Herra! rædt, í hiálpræðis ordi þínu, allt sýnist mér þá búid og bætt, bolid í hiarta mínu, í Sacramentinu sie eg þig, svo sem í líking skiærri, med nád mér nærri; o! hvad gledur sú áshynd mig, engin finst huggun stærri.

6. Heródes sýsn var holdleg sú, hann réd forvitni ginna; en mín sála af ást og trú, andvarpar þig ad finna, lofsamleg er sú lucku-stund, þá lít eg þig, Herra þýdi! í þinni prýdi, gef mér loksins þann fagnadar-fund, þó fyrst um sinn hér bídi.

7. Þad kénnir Herrans þognin fróm, þar nærst í annann máta: hann vill ei sínum helgidóm, fyrir hunda kasta láta, Drottinn forsmáir drambsamt géd, diarflega margs þó freisti, og frekt sér treysti, hugstoltum nidur hrinda réd, hógværa sál vidreisti.

8. Heródes og hans hof-fólk litt, um Herrann akta vildi, færdi hann í eitt fatid hvitt, forsmán þad heita skyldi, til Pilatum sidan sendur var; svo komst í fridar stilli, sá offinn

illi, drambsöm ofundin ádur bar, ó-vinskap þeirr'á milli.

9. Hvítt klædid giördi hádúng þér, Herra minn Jesú sæti! dírdar-skrúda svo skenktir mér, skínandi Guds rétt-læti, sakleysis merkid þetta þitt, þíns Födurs gædskan hreina, þá þeckti' all-eina; hann sier og prófar hiartad mitt, hvad sem illgiarnir meina.

10. Heilagra sálna hópur skiær, á himnum med skickun fríða, til heidurs þér, Jesú Herra kiær! hvítum klædum sig skrýda; eins hér á jordu upp frá því, eflaust í minníng slíka med roksemd ríka, birtust snióhvítum búníng' í, blessadir Englar líka.

11. Veittú, Jesú! þá miskun mér, meinleysis skrýddur klædi, þión'eg tál-laust med trygdum þér, í trú, von og þolinmædi, réttlætis skrúda skartid þitt, skíni á sálu minni, þó líf hér linni, eins láttú holdid einninn mitt, af-klædast þriótsku sinni.

12. Forlíkast giördu fiandmenn tveir, þá fórstú þar, Jesú! milli; eg veit, mér gafstú miklu meir, miskun og frid-ar-

ar-stilli, hiá Gudi Fodur, svo (til sanns), siest engin reidi lengur, né stygdar-streng-ur, daglega milli mín og hans, minn trúr Frelsari gengur.

13. Hvar sem ófridur hreifir sér, af holdsins veikleik brádum, milli kristinna manna hér, móti Guds vilia' og rádum, gácktú þar, Jesú! milli mest, med þín-um fridar anda, og varna vanda, hiálpa þú, svo vér hugsum best, í hreinum kiærleik ad standa!

## 22. Psálmur.

### Um krossfestingar-hróp yfir Kristó.

Lagid er: Fadir vor, sem á himnum ert.

Frá Heróde þá Kristur kom, kallar Pilatus sniöllum róm, Gydínga-líd, og liós gaf røk, Lausnarinn hefdi enga søk, sampyckur væri og sér til þess, siálfur Kongurinn Heródes.

2. Sannlega Drottinn sakleysed, sier, elskar bædi' og styrkir med, hiarta og munnur hvors eins manns, hlýtur ad þiöna vilia hans. Málesnid gott fær gódann róm, giæt þess, mín sál! og vertú fróm.

3. Sidur Gydínga sá var þá, sakamann einn þeir skyldu fá, um Páskatímann frá píslum frí, Pílatus átti' ad gégna því. J frelsis minníng úr Egyptó, aldrei baud Drottiñ svoddan þó.

4. Siá til mín sál! ad sidvaninn, sist megi villa huga þinn, fordastú honum ad fylgia hér, framar enn Guds ord leyfir þér. Gód meiníng enga giörir stod, gilda skal meira Drottins bod.

5. Pílatus Júdum sagdi svo: siáid nú gløggt um kosti tvo, eg býd hér Jesúm ydur fram, eda mordíngiann Barabbam. Hann meinti' ad yrdi helst med því, Herrann frá dauda géfinn frí.

6. Þú sær nú gløggt af þessu sied, þar sem Drottinn er ecki med, í verki, áformi og vilia manns, verda til einkis rádin hans; sérvitska holdsins svikul er, svo sem Pílatum skédi hér.

7. Yfir-mennirnir 'allra fyrst, óskudu ad Drottinn krossfestist, almúgann svo í annann stad, eggiudu mest ad bidia um þad, Barabbas's útlausn skyldi ské, skilinn Jesús frá lífi sé.

8. Veraldar dæmin varast skalt, vogadú ecki' ad giøra þad allt, sem Høfdíngiarnir nú hafast ad, þó heimurinn kalli loflegt þad; ef blindur leidir blindann hér, bádum þeim hætt vid falli er.

9. Hvørr þig eggiar á íllverk brád, aldrei gack þú med þeim i rád, vinn þú þad ei fyrir metord manns, ad missa Guds nád og vinskap hans; hvørigur annars bætir bøl, þó bádir rati' i straff og qvøl.

10. Yfir-mønnunum er þvi vandt, undirsátarnir hnýsa grant, eptir því, sem fyrir augun ber, audnæmast þó hid vonda er; hvad Høfdíngiarnir hafast ad, hinir ætla sér leyfist þad.

11. Ill eptirdæmi' á alla grein, eru samlíkt vid milnu-stein, vilier þú vera'af fári friáls, festú hann aldrei þér vid háls, i Guds ótta frá þér glæpum hrind, gód vertú ødrum fyrirmind.

12. Hússfrú Pilati holl gaf rád, hefdi hann betur ad því gád; gódar qvinnur þess gæti mest, giarnan ástundi dæmin best. Abigael fær æru' og sæmd, illa Jessabel verdur ræmd.

13. Set eg það nú í sinni mér, sæti Jesú! að giæt'að þér: allir hrópudu allt um kríng, yfir þig dauda og krossfesting, sem lamb meinlausast þagdir þú, þar af stendur mér huggun trú.

14. Logmálsins bolvan bitur og sterk, banvænn diofull og oll mín verk, þó hrópa vilie nú hvort fyrir sig, hefnd og fordæming yfir mig, nýt eg, minn Jesú! þín í því, frá þeirra klogun verd eg frí.

15. Afellis dómsins ógna hróp, ytstur mirkranna vein og óp, aldrei mun kom'að eyrum mín, eyrun blessud fyrst heyrdu þín, kall og háreysti kríngum sig, frá qvol og ángist það frelsar mig.

16. Hrópar nú yfir mér himin og jord, helgun, frid, náð og sáttargiord, hvort heldur eg geng út eda inn, í þinu nafni, Jesú minn! bænar-hróp mitt í hreinni trú, himneskum Gudi þócknast nú.

17. En þér til heidurs alla tíd, Englar Drottins og kristnin fríd, hrópar nú bædi' á himni og jord: Hósanna, lof og þackargiord! Amen segir og uppá það, ond mín gladvær í hvorium stad!

## 23. Psálmur.

### Um Kristí húdstrýkíngu.

Lagid er: Oss lát þinn anda styrkia.

Pílatus Herrann hærsta, húdstrýkia lætur þar. Nakinn vid stólpann stærsta, streingdur þá Jesús var, stríds-menn med svipum hroktu hann; sál mín! hér siá og skoda, hvad Sonur Guds fyrir þig vann.

2. Helgasta holdid frída, frá hvirfli ilinum ad, Drottni vard sárt ad svída, svall allt af benium þad, hvorr hans líkama limur og æd, af sárum sundur flakti, sú hirtíng miög var skiæd.

3. Blessadur dreyrinn dundi, Drottins lífs-ædum úr, sem regn þad hrad-ast hrundi, himins í dimmu skúr, blá-nadi hold enn bólgnadi und; Sonur Guds sárt var qvalinn, saklaus á þeirri stund.

4. Eg var, sem fiøtrum færdur, fáng-elsi þúngu í, á önd og samvitsku særd-ur, syndin mín olli því, sú daudleg sál-ar sóttin hér, um hvoria æd út sér dreifdi, ekkert fanst heilt á mér.

5. Svipan' logmálsins lamdi, líf og sál heldur frekt, óttinn qvalanna kramdi, kominn var eg í sekt, banvænlegt ordid mitt var mein, hiartad af hrigdum stundi, hvørgi fécksk lækníng nein.

6. Sástú þá, Jesú sæli! sár mín óbærilig, til lausnar þínum þræli, því létstú binda þig, géckst svo undir þá grimdar qvøl, ad eg qvittadur yrdi, vid eilíft hriggdar bøl.

7' Siúkdóm minn siálfur barstú, svo vard eg heill med því, hørmúngum hladinn varstú, frá hrigdum er eg nú frí, hegníng þú féckst svo hefd' eg frid, benjar þínar mér bættu, bót sú þar átti vid.

8. Hiartad vill hrædslan kreinkia, med hørdum sorgar stíng, þegar eg giøri' ad þenkia, um þína húdstrÿkíng, avi! eg gaf þar efni til, þú einn galdst þriótsku minnar, þess nú eg ydrast vil.

9. Því fell eg nú til fóta, Frelsarinn Jesú! þér, láttú mig nafns þíns nióta, nád og vægd sýn þú mér, eg skal med hlýdni heidra þig, nú og um eilífd alla, þá huggar þú, Herra! mig.

10. Gledstú

10. Gledstú, mín sál! þig græddi, Guds Sonar heilagt blód, þó synd og sorgin mæddi, siá! hér er lækníng góð, nád fyrir reidi nú er vís, brot þrælsins Herrann bætti, bar því sins Fødurs hrís.

11. Skoda þú skyldu þína, skírlega, sál mín! nú: Sonurinn sig lét pína, svo læknud yrdir þú; heilbrigd þióna þú honum rétt, med trú, hollustu og hlýdni, haf gát á þinni stétt.

12. Þóknist honum ad þiaka, þitt hold orkumislum med, þýdlega því skalt taka, þolinmódt hiarta-géd, áfier Drottinn og ellkar best; Lausnar'ad líkiast þínum, lof er þér allra mest.

13. Eckert má sóma sídur: ss-kátur þrællinn er, þá Herrann harmqvæli lídur, haf slíkt í minni þér; hrigdar-mind hans er heidur þinn. Lát mig þad læra og halda, liúfasti Jesú minn!

## 24. Psálmur.

Um Purpurann og Þyrnkórónuna.

Lagid er: Til þín, Heilagi Herra Gud!

Illvirkiar Jesúm eptir þad, inn í þinghúsid leiddu, afklæddu fyrst,

og fliótt þángad, fólkid allt koma beiddu, purpura-klædis forna flík, (sáſt mátti varla hádúng ſlík), yfir hans beniar breiddu.

2. Helgunar-klædid hafd' eg miſt, hlaut því nakinn ad ſtanda, Adam olli því allra fyrſt, arf lèt mèr þann til handa; syndanna ſlík eg færdiſt í, forſmán og minkun hlautſt af því, med hvorſkyns háſka' og vanda.

3. Burt tók Jeſús þá blygdun hèr, beranh því lèt ſig pína, rèttlætis klædnad keypti mèr, kann ſá fagurt ad ſkína; athvarf mitt jafnan er til ſanns, undir purpura kápu hans, þar hyl eg misgiörd mína.

4. **Þyrni-kórónu** þúngri þeir, þreyngdu ad Herrans enni, bál-eldi heitum brenndu meir, broddar ſvídand' í henni, augun hans bædi og andlit med, allt af blódinu fyllaſt rèd, ſlíkt trú' eg qvala kénni.

5. Fyrir óhlýdni Adams var, oll jordin lýſt í banni, ávöxt því ſlíkann af ſèr bar, ord Guds trú' eg þad ſanni; þesſum bölvunar Þyrni-krans, þreyngt var

var ad hofdi Lausnarans, til huggunar hreldum manni.

6. En Jesú hlýdni aptur hér, allri jord blessun færir, heilnæmann ávoxt hún því ber, hvoria sképnu vel nærir. Fyrir gædskunnar giorníng þann, gofgi, lofi og prísi hann, hvad sig um heiminn hrærir!

7. Bolvan mér yfir høfdi héck, hótud í logmáls brædi; en Jesús hana undir-géck, svo aptur eg blessun nædi; Gud minn Kórónu gaf mér þar, gædsku og dírdar eilífrar, hér og á himnum bædi.

8. Reir-staf honum í hønd med spé, Hirdstiórans þrælar fengu, heilsudu Kóngi' og krupu' á kné, kalls-ord á víxl þá gengu, reirnum hrøcktu um høfud hans, hræktu í andlit Lausnarans, med qvala-kappi straumau.

9. Þá þú gengur í Guds hús inn, gæt þess vel, sál mín fróma! hæd þú þar ecki Herra þinn, med hegdun líkamans tóma, beygdu holdsins og hiartans kné, heit bæn þín ástar-qvedia sé, hræsnin mun sist þér sóma.

10. Siálfs míns verdskuldun sie eg hér, svoddan átt'eg ad lída, um eilífd þá, sem aldrei þver, med ógn og sárum qvída, hefdi mér ecki hormúnga þín, hiálpad, Jesú! frá þeirri pín. Blessad sé nafn þitt blída!

11. Öll þín lægíng er uppheſd mín, ástkiæri Jesú mildi! heidur er mér ad háduńg þín, hvorr sem mér nidra vildi, höggin, sem leidstú, hressa mig, á himnum verd eg nú fyrir þig, metinn í mesta gildi.

12. Medan lífs-æd er í mér heit, eg skal þig, Drottinn! prísa, af hiartans grunni' í hvorium reit, heidur þíns nafns auglýsa, feginn vil eg í heimi hér, hlýda og fylgia í öllu þér; lát mér þína lidsemd vísa!

## 25. Psálmur.

### Um útleidslu Kristi úr Þíng-húsinu.

Lagid er: Konúng David, sem kiendi.

Landsdómarinn þá leiddi, Lausnarann út med sér, Gydíngum andsvör greiddi, glögglega og svo tér:

þér siáid þennann hér! sánnlega yd-
ur eg segi, søk finst med honum eigi,
sú dauda-dóms verd er.

2. Þá géck Jesús út þanninn, Þyrni
og Purpura bar, sagdi: siáid hér
Manninn! siálfur Dómarinn þar;
Gydíngar gáfu svar: burt med hann,
svo þeir segia; sá skal á krossi deyia;
óst þeirra ein sú var.

3. Ord og assokun gildti, engiun í
þessum stad, heiptin svo hugann fyllti,
hiartad vard forblindad; sidarst þeir
søgdu þad: lióslega lífs-straffs krefdi
løgmálid, því hann hefdi, giørt sig
Guds Syni ad.

4. Rétt løg, sem ritud finnast, ráng-
færdu Júdar hér, oss ber þar á ad
minnast, ill dæmi fordunst vér, dóm-
urinn Drottins er, hinn þó med heipt-
um klagi, og hreinann sannleik aflagi;
siái Valds-menn ad sér.

5. Þá eg heyri, minn Herra! hvørsu
þú qvalinn varst, giørvøll vill gledin
þverra, galdstú mín nærsta hardt, því
eg braut mikid og margt; en þá mér
Gudspiøll greina, gløggt þitt sakleysi
hreina, hiartad fær huggun snart.

 6. At-

6. Athuga, sál mín! ættum, útgaungu Drottins hér, svo vid rétt minnast mættum, hvad miskun hans veitti þér; hyggium ad, hann út ber Þyrni-kórónu þetta, þar med Purpurann létta, blár og blódugur er.

7. Med blód-skuld og bolvun stránga, beiskum reird qvala-hnút, áttum vid greidt ad gánga, frá Guds nád rekin út, hrakin í heliar sút, íklædd forsmánar flíkum, fráskúfud Drottni ríkum, nakin og nidurlút.

8. O synd! o syndin arga! hvad íllt kémur af þér? o! hvorsu meinsemd marga, má Drottinn lída hér! þitt giald allt þetta er, blindad hold þig ei þeckti, þegar þín flærd mig bleckti. Jesús miskúni mér!

9. En med því út var leiddur, alsærdur Lausnarinn, giordist mér vegur greiddur, í Guds nádar-ríki inn, og eilíft líf annad sinn, blódskuld og bolvun mína, burt-tók Guds Sonar pína. Dírd sé þér, Drottinn minn!

10. Utgeng eg ætíd sídan, í trausti Frelsarans, undir blæ himins bídann, bless-

blessadur víst til sanns, nú fyrir nafnid hans, útborid lík mitt lidid, legst og hvílist í fridi, sál fer til sælu-ranns.

11. Dírdar Kórónu dýra, Drottinn gèfur mèr þá, rèttlætis skrúdann skíra, skal eg og einnin fá, upprisu-deginum á, hærstum heidri tilreiddur, af heilögum Englum leiddur, í sælu þeim siálfum hiá.

12. Svo munu Guds Englar segia: siáid nú þennann mann! hvörn allskyns eymd réd beygia, ádur í heimsins rann, opt var þá hreldur hann, fyrir blód Lambsins blída, búinn er nú ad strída, og sælann sigur vann.

13. Þá muntú, sál mín! svara, syngiandi fögrum tón: lof sè mínum Lausnara! lamb Guds á hærsta trón, sigur gaf sínum þión, um blessadar himna-hallir, honum segium vèr allir, heidur, med sætum són!

14. Son Guds ertú med sanni, Sonur Guds, Jesú minn! Son Guds, syndugum manni, sónar-arf skenktir þinn, Son Guds einn eingétinn; Syni Guds syngi gladur, sèrhvörr lifandi madur, heidur í hvört eitt sinn!

26. Psálm-

# 26. Psálmur.

## Samtal Pilatí vid Kristum.

Lagid er: Hærstí Gud Herra mildi.

Hér þá um Guds Son heyrdi, heidinn Lands-dómari, hann spyr (því hrædast giørdi): hvadan vor Drottinn se? en Jesús þýdur þagdi, (þad og vel maklegt var); Pilatus brádt ad bragdi, bistist og aptur sagdi: vilt þú ei veita svar?

2. Mín er, þad mátt þú játa, makt-in svo tignarlig, eg má vel lausann láta, líka krossfesta þig. Jesús svar-ar og segir: síst átt þú vald á mér, ef þér væri þad eigi, ad ofan gefid, svo megir, heidri þeim halda hér.

3. Sá hefir synd enn meiri, er seldi mig þér á hønd. Pilatus hygg eg þad heyri, hann grundar málin vond. Giørdi strax grída ad leita; gáfu Prestarnir ans: vægd ef þessum vilt veita, víst mátt þú ecki heita, kiær vinur Keisarans.

4. Heidíngiar halda giørdu, hiá-gudir þeirra senn, born ættu alin á jørdu, eins

eins og holdlegir menn; hann óttast hér ef væri, Herrann Godanna kyns, hugdi því helst ad bæri, hyggilega framfæri, ransókn réttdæmisins.

5. Skurdgod sin heidnir héldu, hafandi í mestu akt, forgéfins hug sinn hreldu, hræddir vid þeirra makt; O! hvörsu framar ætti, einn sérhvörr kristinn mann, óttast Drottins almætti, med ást og blygdunar hætti, sem stoltum steypa kann.

6. Af stórri makt sig réd stæra, stoltur Pilatus hér, rétt mál til rángs ad færa, reiknadi leyfilegt sér; kann vera margann megi, meiníng sú villa þrátt, þó login brióti og beygi, bannad sé þeim þad eigi, fyrst vald þeir hafa hátt.

7. Gud er sá voldir géfur, gæti þess ædri stétt, sitt léni hvörr einn hefir, hér af Drottni tilsett, hann lét þig heidur hlióta, heidrast því af þér vill, virdíngar vel mátt nióta, en varast dramb-semi lióta, róg og rángindin ill.

8. Yfirvald einn Gud sendi, undirmenn gæti þar ad, sverd Drottins hefir í hendi, heidra skulum vér þad, hlýd-

ugir

ugir fridi halda, hlífd og forsvari ná, þverlyndis þriótskan kalda, þúnglegri hefndar-gialda, ad vísu sér vænta má.

9. Eins sem hvorr einn misbrytur, eptir því straffast hann, hardari hefndir hlýtur, hinn sá meira tilvánn; þeim mun ei plágan þverra, sem þriótskast í synda-rót, sá þión á von hins verra, sem vilia þeckir sins Herra, þó giorir þvert á mót.

10. Vardveiti Valdsmenn alla, vor Gud! í sinni stétt, svo varist í vondsku ad falla, vel stundi lög og rétt; hinir í hlýdni standi, hvorr svo, sem skyldugt er, hrein trú og helgur vandi, haldist í voru landi, Amen, þess óskum vér!

## 27. Psálmur.

### Pílati samtal vid Gydínga á Dómstólnum.

Lagid er: Skaparinn stiarna, Herra hreinn!

Pílatus heyrdi hótad var, honum Keisarans reidi þar, útleiddi Jesúm annad sinn, uppsetst þegar á domstólinn.

2. Gyd-

2. Gydíngum síðan sagði hér: síðið, þar ydar Kóngur er. Þeir báðu: tak þennann burt frá oss, brádlega lát hann deyia' á kross.

3. Skal eg krossfesta Kóng ydvarn? kallar Pilatus hædnis-giarn; engann Kóng segia þeir aptur hér, utan Keisarann hofum vér.

4. Gudspialls historian hermir frá, heiti sá stadur Gabbatha, háa steinstræti þýdir þad. Þar mátt þú, sál mín! gæta ad.

5. Vei þeim Dómara' er veit og sier, víst hvad um málid réttast er, vinnur þad þó fyrir vinskap manns, ad víkia' af gotu sannleikans.

6. Pilatus Keisarans hræddist heipt, ef honum yrd' úr voldum steypt; þetta sem helst nú varást vann, vard þó ad koma yfir hann.

7. O vei! þeim sem ad órétt log, umgángast og þau tídka miog, sannleiknum meta sitt gagn meir, svívirding Drottni giora þeir.

8. Huga síný eg og máli mín, minn gódi Jesú! enn til þín: Pilatus Kóng

þig kallar hér, krossfesting Júdar óska þér.

9. Víst ertú, Jesú! Kóngur klár, Kóngur dírdar um eilíf ár, Kóngur Englanna, Kóngur vor, Kóngur almættis tignar stór.

10. Þó stódstú bundinn þar fyrir' dóm, þó leidstú hróp og qvala-róm, afsegia giordu allir þig, undrar stórlega þetta mig.

11. O Jesú! það er játníng mín: jeg mun' um sidir nióta þín, þegar þú, dírdar Drottinn minn! dómstól í skýium setur þinn.

12. Frelsadur kém eg þá fyrir þinn dóm, fagnadar-sælann heyr'eg róm, í þínu nafni útvalder, útvalinn kalla mig hiá sér.

13. Kóng minn, Jesú! eg kalla þig, kalla þú þræl þinn aptur mig, Herratign enga' ad heimsins sid, held eg þar mega jafnast vid.

14. Háa stein-strætid heimsins sleipt, hefir mér opt í vanda steypt, þángad lét Jesús leida sig, svo líknin hans komi yfir mig.

15. Jesú! þín kristni kys þig nú, Kóngur hennar einn heitir þú, stiórn þín henni svo haldi vid, ad himneskum nái dírdar frid!

## 28. Psálmur.

### Um Pilati handa-þvott og Dóm.

Lagid er: Nú bid eg, Gud! þú nádir mig.

Pilatus sá ad sønnu þar, sín rád máttu ei gilda par, upphlaup sér búid hræddist hann, hugdi ad stilla vanda þann, fullnægia vildi fólksins bón, sá skyldi Jesús daudans tión, sannleika engum sinnti meir, svo dæmdi allt, sem beiddu þeir.

2. Hendur í vatni þá nam þvo, þar nærst vid Júda mælti svo: siálfir um ydur siái þér, saklaus vid réttláts blód eg er. Allur almúginn uppá þad, andsvarar greidt í þessum stad: hans blód (þó nú hann qvelie kross), komi yfir børnin vor og oss!

3. Pilatus hafdi prófad þar, píslarsøk Drottins engin var, fyrir og eptir eins réd hann, úrskurda Jesúm saklausann,

ann, þó mót samvitsku sinni þvert, siálfur viliandi dæmdi bert. Guð gefi að Yfirvöldin vor, varist þau dæmi glæpa-stór!

4. Hvað margur nú í heiminum, hér fyrir lastar Pílatum, sem þó elskar og ydkar mest, athæfi hans og dæmin verst? óttinn í dómi opt fær sess, Yfir-Herrarnir nióta þess; almúgans hrosun olli því, illgiarnir skálkar hlaupa frí.

5. Abata-von og vina-hót, verkin dyslia þó séu liót, líka kemur sú fordild fram, sem forsvarað getur Barabbam; gefst þá rannin hvað gilda skal, gull-túngan sú, sem Achan stal, máské og þiggi mútur hinn, meir'enn Pílatus þetta sinn.

6. Eg spyr: hvað veldur ódygð flest, eykst nær daglega og fiölgar mest? umsiónarleysi' er orsök hærst, egin gagnsmunir þessu nærst, miskun, sem heitir skálka-skiól, skygnist eptir um sáuhtt hól, óttinn lögin svo þvíngar þrátt, þora þau ecki' að líta hátt.

7. Fyrir fólkinn þegar þar, þvoði Pílatus hondurnar, fyrir Guði, sér þann giorði grun, gilda mundi sú afsökun. Varastú, maður! heimsku hans,

hér

hér þó þú villir siónir manns, almáttugs Drottins augsýn skiær, allt þitt hiarta rausakad sær.

8. Viltú þig þvo, þá þvo þú hreint, þel hiartans bædi lióst og leynt, ein laug er þar til edla góð; ydrunar-tár og Jesú blód; grát þína synd, en set þitt traust, á Sonar Guds pínu efalaust, lát af illu, en ydka gott, allann varastú hræsnis þvott.

9. Blóds-hefnd á sig og børn sín med, blindadur lídur hrópa red, ebldist svo þessi ósfin kold, enn í dag bera þeir hennar giold; athuga-giarn og ord-var sért, einkum þegar þú reidur ert, formæling illann finnur stad, fást mega dæmin uppá þad.

10. Drottinn Jesú! sem dæmdur varst, Dómari kémur þú aptur snart, Dóms-menn láttú til dirdar þér, Dómana vanda rétt, sem ber; þvo þú vor hiortu og hendur med, hrein trú vards-veiti rósamt géd; þitt blód fleckláust, sem flódi á kross, frelsi þad bornin vor og oss!

# 29. Psálmur.

## Um Barabbas's frelsi.

Lagid er: Eins og sitt barn, fadir ástargiarn.

Seldi Pilatus saklausann, Son Guds til krossins dauda; upphlaups-madur sá víg eitt vann, þá frelsi fann, feck líf, en misti nauda.

2. J mirkva-stofu sá bundinn beid, Barabbas trú' eg hann heiti Má hér finnast ein merking greid, um mannkyns neyd, miog' skír ad ollu leiti.

3. Barabbas frá eg Fodurs Nid, flestir lærdir menn þýdi; Adam líkist þar eflaust vid, og allt hans lid, sem á fell daudans qvídi.

4. Upphlaups-madur hann ordinn var, þá eplid í munn sér leiddi, siálfs Guds bodordi sinnti' ei par, og sidan þar, sig og allt mannkyn deyddi.

5. J diofuls fiotrum fastur lá, fánginn til eilífs dauda: allir hans nidiar út í frá, med eymd og þrá, áttu von qvala' og nauda.

6. Hér þá Jesú var helid kallt, af heidnu dæmt Yfirvaldi, feck Adam apt-

ur frelsid sniallt, og fólk hans allt, sem fagnar því lausnar gialdi.

7. Nú fyrst eg Adams nidie er, nær mér gengur þad dæmi; sál mín! set slíkt fyrir siónir þér, og siádú hér, sannferdugt lærdóms næmi.

8. O! hvad opt hef'eg aumur gért, uppreisn mót Drottins anda! daglega því hans bodord bert, svo braut eg þvert, mér bar þó í hlýdni' ad standa.

9. Mun og ecki vid manndráp frí, mína sál þrátt eg deyddi, ill dæmin gásust af mér ný, og naudir í, náúngann þar med leiddi.

10. Ofrægur er eg ordinn mest, allar sképnur þad sanna, fárádum eckert forsvar siest, fángelsid vest, fyrir því hlýt eg kanna.

11. J mirkvastofu eg bundinn bíd, bolvan logmáls mig hrædir, dapurt nálægist daudans strid, og dómsins tíd, daglega sorgin mædir.

12. Heyri eg nú þann hiálpar róm: ad hafir þú, Jesú mildi! fyrir mig lidid lífláts dóm, þín líknin fróm, lausann mig kaupa vildi.

13. Sú heilaga' aflausn hrigd og sút, af hiarta mínu greidir, syndanna leysir hleckia-hnút, og hér nærst út, úr hordu fángelsi leidir.

14. Hvad dauda saknæmt sást á mér, (svoddan eg miskun þecki), til dauda allt var dæmt á þér, minn Drottinn! hér, dóminum qvíd'eg ecki.

15. Líf mitt og sál þig lofar nú, leyst frá daudans fángelsi, eg lif'eda dey, þad er mín trú, óbrigdul sú, í þínu, Jesú! frelsi.

16. Himneskri Páska-hátid á, hef'eg nú þess ad bída, mirkvastofunni frelstur frá, eg fagna þá, í flocki' útvaldra lída.

17. Svo er nú Barabbas ordinn frí, Adam og eg hans nidie; hvor kristin sála heimi í, vorn Herra því, heidri, losi, tilbidie!

## 30. Psálmur.

### Um Kristí kross-burd.

Lagid er: Uppá fiallid Jesús vendi.

Strídsmenn Krist úr kápu færdu, og klæddu hann sínum búníng í, kollnar undir sárt vid hrærdu, þær svidu

svidu og blæddu uppá nÿ, á blessudu
sinu baki særdu, hann bar sinn kross
og mæddist þvi.

2. Skédi svo á samri stundu, Si-
mon nockurn bar þar ad, framandi
mann, er géck um grundu, gripu
Júdar þann í stad, krossinum á hans
herdar hrundu, hann géck naudug-
ur undir pad.

3. Þeir sem (sál mín!) syndir drÿgia,
samvitskunni hvert á mót, undir Drott-
ins endurnÿia, ef ecki giora' á lostum
bót: vid skulum frá þeim flocki flÿia,
og fyrirgéfníngar bidia' af rót.

4. Uppá heimsins óþacklæti, er hér
dæmi liost til sanns, margann læknadi
Son Guds sæti, siúkann medal almúg-
ans, nú var ei neinn, sem bolid bæti, og
bæri med hönum krossinn hans.

5. Símon bædi' og syni hans báda,
siálf hér nefnir historian, gudhræddur skal
nióta náda, og nidiar margir eptir hann,
miskunsemd vid menn sáráda, minnast
Gud og launa kann.

6. Framandi madur mætti Kristi,
med honum bar hans þúnga kross. Hér

má finna, hvørn þad lystir, hreina þýdíng uppá oss, Gydínga fólk þá Guds náð misti, gafst Heidíngium dírdar hnoss.

7. Synda undir þyfast mínar, opt á hvørri stundu nær, samvitskunnar sorg ei dvínar, svida-meinid illa grær, blessadar, Jesú! beniar þínar, bid eg mýki' og lækni þær.

8. Þessi krossins þúnga byrdi, þér var Drottinn logd á bak, svo fyrirmyndan fyld sú yrdi, þá fórnar-vidinn bar Ísaak, sá þinn gángurinn sorgar stirdi, af sálu minni tók ómak.

9. Minnist eg á þiáníng þína, þig sú mæddi byrdin stríd, sannlega fyrir sálu mína, svoddan leid þín gædskan blíd; vegna þess mér virdstú' ad sýna, vorkunsemi nær eg líd.

10. Hold er tregt, minn Herra mildi! í hormúngunum ad fylgia þér, þó eg feginn feta vildi, fótspor þín, sem skyldugt er, viliinn minn er í veiku gildi, þú verdur því ad hiálpa mér.

11. Elsku géd svo þitt eg þecki, þiádum viltú sýna lid, láttú mig Drottinn einann ecki, í ánaud minni þess eg bid,

nafn-

nafnið mitt, þó nauðir hneckí, náð þín blessuð kanniſt við.

12. Komir þú undir kroſſinn ſtránga, kriſtin ſála! gæt þeſs hér, ef holdið tekur að mogla' og mánga, minſtú hvor þín ſkyldan er, láttú ſem þú ſiáir gánga, ſiálfann Jeſúm undan þér.

13. Undir kroſſi illvirkianna, aldrei hér þig finna lát, varaſtú glæpi vondra manna, á verkum þínum hafðú gát, iðka bæn og ydrun ſanna, elſka giarnan hóf og mát.

14. Haf þú, Jeſú! mig í minni, mæðu' og dauðans hrelling ſtytt; børn mín hiá þér forſión finni, frá þeim øllum vanda hritt, láttú ſtanda' á lífs-bók þinni, líka þeirra nøfn, ſem mitt!

## 31. Pſálmur.

### Prédikun Kriſti fyrir qvinnunum.

Lagið er: Sá friáls við løgmál fæddur er.

Fólkið, ſem Drottni fylgði út, fyllt-iſt margt ángri hørðu, qvinnurnar grétu ſárt með ſút, ſem hans qvøl aumka giørðu.

2. Snéri til þeirra Son Guds sér, sagdi þá Herrann mætur: grátid þér ecki yfir mér, o! Jerúsalems dætur.

3. Sonu ydar og egin eymd, efslaust þér gráta megid, nálgast sú tíd sem nú er geymd, nær þér harmandi segid:

4. Sæl nú óbirian barnlaus er, og brióst þau ei sogin vóru, hrynie yfir oss hálsarner, hædir og fiøllin stóru.

5. Ef giørt er svo vid þad græna tré, (géta hvørr til þess nædi), hvad hid þornada þá mun ské? þad trú'eg Jesús rædi.

6. O! hvad veraldar virdíng er, volt og svikul ad reyna, gæt þess, mín sál! og siádú hér, sannprófad dæmid eina:

7 A Pálma-sunnudag siálfur inn, Son Guds í borg nam rída, ástvinir hans þad sama sinn, súngu lof án alls qvída.

8. Fám dogum sídar siálfur út, særdur med kross nam gánga, þad hlutu hans vinir ad siá med sút, sorg hiartans báru stránga.

9. Hafi svo verid volt og flá, veroldin Herra sínum, hvørs má sér vænta þræll-inn þá? þess gæt í huga þínum.

10. Þeim sem hún býdur blídleik sinn, búin er sorgin mesta; hirdtú því aldrei huga þinn, við hana, mín sál! ad festa.

11. Sannlega skyldugt segi' eg mér, sára þá qvol ad gráta, sem Drettinn Jesú! þúngt ad þér, þreyngdi í allann máta.

12. Samt er þér ecki þént med því, þótt eg þig aumka vildi, eilífa hátign ertú í upphafinn, Jesú mildi!

13. Þar má nú heldur aukast af, ángur samvitsku minnar, orsök eg til og efni gaf, allrar hormúngar þinnar.

14. Erfidi hef' eg aukid þér, ofþúngt med syndum mínum, glæpanna, sem eg giordi hér, galdstú á holdi þínu.

15. Hrædist eg mér sé hulin geymd, sú hefndar pínan stránga, því eg vann til ad eilíf eymd, yfir mig skyldi gánga.

16. En þó gled eg mig aptur vid, ávoxtinn qvala þinna, þar af ødlast eg frelsi' og frid, og forlát synda minna.

17. Angistin sár og sorgar-lát, er sál helst þiádu mína, snýst í fognud og fegin-grát, fyrir þá miskun þína.

18. Bid eg nú, Jesú blídi! þig, sem bót mér giordir vinna: lát engann gialda eptir mig, íllsku né synda minna!

## 32. Psálmur.

### Um græna og visna tréd.

Lagid er: Nú kom heidinna hiálpar-rád.

Greinir Jesús um græna tréd, gétur hins visna einnin med. Vid skulum, sál mín! skoda' á ný, skirann lærdóm á máli því.

2. Friófgunar eikin voxud væn, velblómgud stód med laufin græn, þegar á jordu sást til sanns, Son Guds í klæddur holdi manns.

3. Líssins ávexti liúfa bar, læknadi Jesús sóttirnar, frá diofli leysti' og daudans pín, daufum gaf heyrn enn blindum sýn.

4. Af hvorri grein draup hunáng sætt, hiálprædis kénníng féck hann rædt, oll hans umgengni ástúdleg, ángrádar sálir gladdi miog.

5. Gudi var þeckt þad græna tréd, glodduft himnar og jordin med; í hans fæd-

fæding það vitnast vann, og við Jórðan þá skirðist hann.

6. Réttlætis allann ávöxt bar, inn til kross-dauða hlýðinn var, saklausa lambið Son Guds einn, af synd og lítum klár og hreinn.

7. Þó mátti ei það edla tré, ángurlaust vera á jordunne, Guds reidi stormur geysa vann, géck því refsíngin yfir hann.

8. Ef þú spyr að: hvað valda vann, vildi Gud láta saklausann, Soninn komast í sorgir þær, sem honum var þó hiarta kiær?

9. Þú skalt vita að visnad tré, var mannkyn allt á jordunne, ofan að rótum uppþornad, ávöxt ránglætis færdi það.

10. Skaðsemdar tréd sem skémdi jord, skipadi Drottins reidi hord upphoggva, svo það ecki þar, akrinum sé til spillíngar.

11. Vor Jesús mönnum vægðar bað, vinnast mátti ei að fengist það, utan hann tæki uppá sig, illverka giøldin hriggilig.

12. Herrann íklæddist holdi þá, hingað kom til vor jordu á, visnadri eik

gafst vøkvan góð, þá varð úthellt hans
dýra blóð.

13. Saklaus því leið hann sorg og
háð, syndugt mannkyn svo fengi náð,
hið græna tréð var hrakið og hrist, hér
af það visna blómgadist.

14. Guðs dýrðar sæti sitt hold í, Son-
urinn mátti' ei hefja því, fyrr enn í
heimi harða neyð, hafði þolað og kross-
ins deyð.

15. O! hvað manns hold er heimsku
fyllt, hriggilega úr máta villt, viljand' í
lostum liggur það, leikur sér allskyns
glæpum að.

16. Margir ætla fyrst ecki strax, á-
fellur hefndin sama dags, Drottinn þá
aldrei muni meir, minnast á það, sem
giörðu þeir.

17. Því góða trénu þirmt var sist,
þurrum fauskt mun þá bálið vist; hafi
Faðirinn hirt sinn Son, hefndar mun
þrællinn ega von.

18. Ef nú Guðs mildin ástúdlig, ó-
hegnda, sál mín! líður þig, hans þolin-
mæði haldtú hér, hiálpræðis meðal gef-
ið þér.

19. Vîsnad tré eg ad vísu er, vægdú, réttlætis Herra! mér, gædskunnar eikin græn og sín, geymdú mig undir skugga þín.

20. Von er ad mér sé mótkast víst, mun eg umflýia daudann síst, holdid má ei fyrir utan kross, eignast á himnum dírdar-hnoss.

21. Tæpti eg mínum trúar-staf, á tréd, sem drýpur hunáng af, sjón hiartans ollu ángri í, upplýsist nær eg smacka af því.

22. Þegar mér gánga þrautir nær, þér sná þú til mín, Jesú kiær! hiartad hressi og huga minn, himneskur náðar-vokvi þinn!

## 33. Psálmur.

### Um Kristi krossfestíngu.

Lagid er: Konúng Davíd, sem kiendi.

Kom loks med krossins byrdi, Kristur í Hausa-stad: ofþiádur frá eg hann yrdi: edik galli blandad, honum þeir héldu ad: Drottinn vor dírdar mildi, drecka þó ecki vildi, þá hann smackadi þad.

2. Fals undir fögru máli, fordildar hræsnin ber, vinátta temprud táli, og trúarlaus ydran hér, edik gall=blandad er, svoddan súrdreggia víni, (þó siálft glíslega skíni), Herrann hrindir frá sér.

3. Þad tek eg víst til þacka, þá þú vilt, Drottinn kiær! súrt med þér siálfum smacka. Sé þín miskunin skiær, í hvorri neyd mér nær! gall=beiskiu bölvuninnar, og bikarinn heiptarinnar, burt tak þú frá mér fiær!

4. Nakinn Jesúm á jördu, Júdar krossfestu þar, med heiptar sinni hördu, hendur og fæturnar, teigt allt og togad var, géck svo járn=gaddur nístur, gégnum lósa og ristur, skinn og bein sundur skar.

5. Tveggia mordíngia milli, miskunar Herrann héck, spádóminn frá eg svo fylli, sem fyrr meir um þad géck, rædir svo Ritníng þeck: Þión minn sá einn útvalinn, er med spillvirkium talinn, forsmán miög þúnga féck.

6. Nú eg minnist á nærsta, nakinn þá Adam stód, vid tréd med hormúng hærsta, hiarta=sorg, böl og mód, því verk

verk hans vóru' ei góð: innvortis ángr-
id qvaldi, undir triánum sig faldi; þeſs
galdt oll heimſins þióð.

7. Nú aptur Jeſús nakinn, negldur
á trénu ſtóð, píndur, húdſtrýktur, hrak-
inn, hiartans bar ſárann móð, þó vóru
oll verk hans góð: einn fyrir engum
faldiſt, opinberlega qvaldiſt, þeſs naut
oll heimſins þióð.

8. Horſi' eg á hondur þínar, Herra
minn Jeſú kiær! fyrir misgiordir mín-
ar, meinin ſlík sidu þær, blód-dreirinn
dundi ſkiær, ſaurgun ſálar og handa,
ſem mér komu í vanda, af hreint med
ollu þvær.

9. Fús var eg fram ad halda, feril
glæpanna hér, þeſs fætur þínir gialda,
þad vard til líknar mér: Drottinn! eg
þacka þér, fram á fridarins leidir, fót-
ſpor mín jafnan greidir, hédan af
hvar eg fer.

10. Gud giæſi! mitt hold mætti, med
þér kroſsfeſtaſt nú, frá ollum illſku-hætti,
óſk mín er dagleg sú, minn Herra! þad
veitſt þú, uppá þad ond mín kynni, ó-
hindrud gædſku þinni, þióna med þýdri
trú.

 11. Einn

11. Einn med illrædis-mönnum, allir þig hélldu þá, sem í heilagleik sonnum, siálfur komst himnum frá, nú eg þess nióta má, af því eg er útvalinn, med ødrum Guds bornum talinn, þar treysti' eg efla ust á.

12. Eg mun æ medan hiari, minnast á krossinn þinn, heimsins liúfi Lausnari! lífgar þad huga minn, hvort eg geng út eda inn, af innstum ástargrunni, ætíd med hiarta og munni, segiandi hvort eitt sinn:

13. Jesú Kristi qvøl eina, á krossinum fyrir oss skén, sé mín sáttargiørd hreina, og synda-qvittunen, af siálfum Gudi sien, uppá þad oud mín vonar, í nafni Fødurs og Sonar, og heilags Anda, Amen!

## 34. Psálmur.

### Fyrsta Ord Kristi á krossinum.

Lagid er: Lifandi Gud! þú lít þar á.

Þegar qvalarar krossinn á, keira vorn Herra giørdu, flatur med trénu lagdur lá, Lausnarinn nidur á jørdu, and=

andlitid horfdi í þeim stad, og augun hans blessud himnum ad, hann stundi' af ángri hordu.

2. Sinn fadm allt eins og barnid' blídt, breiddi mót Fodurnum kiæra, blódid dundi og tárin tídt, titradi holdid skiæra. Hér skoda madur huga þinn, hvad kunni meira nockurt sinn, Drottinn til hefndar hræra?

3. Ovinum fridar blídur bad, brunnur miskunarinnar, hann vill þeir nióti einninn ad, ávaxtar þínu sinnar: sagdi: Fadir, þeim fyrirgéf þú! forblindadir ei vita nú, siálfir hvad vondt þeir vinna.

4. Lausnara þínum lærdú af, lunderni þitt ad stilla, hógværdar dæmi gott hann gaf, nær giora menn þér til ílla: blót og formælíng varast vel, á vald Guds allar hefndir fel, heipt lát ei hug þinn villa.

5. Þótt þú vid adra saklaus sért, sannlega skalt þess gæta, samt fyrir Gudi sekur ert, sá á þig friálst ad græta; íllir menn eru'í hendi hans, hirtíngarvondur syndugs manns, enginn kann þess ad þræta.

6. Ovin-

6. Ovinum ills þó óskir hér, ei mínkar heiptin þeirra, óþolinmædi eykur þér, afrækir bod þíns Herra, þá styggir Gud med svóddan sid, samvitskan mög þar sturlast vid, tión þitt verdur því verra.

7. Upplýstú hug og hiarta mitt, Herra minn Jesú sæti! svo ad eg dírdar dæmid þitt, daglega stundad gæti, þeir sem ófor-þént ángra mig, óska eg helst ad betri sig, svo hiá þér miskun mæti.

8. Heimsins og diofuls hreckia-vél, holdid þrálega villa, þess vegna ecki þeck eg vel, þó nú margt gior'eg illa; beri svo til eg blindist hér, bid þú þá, Jesú! fyrir mér, þad mun hefnd harda stilla.

9. Eg má vel reikna aumann mig, einn í flock þeirra manna, sem í qvolinni þiádu þig, þad vóru giold syndanna; en þú, sem bættir brot mín hér, bid þú og líka fyrir mér, svo fái'eg frelsun sanna.

10. Fyrst þú badst fridar fyrir þá, er forsmán þér giordu mesta, vissulega eg vita má, viltú mér allt hid besta; því eg er Guds barn og bródir þinn, blessadi Jesú Herra minn! nád kann mig nú ei bresta.

11. Allra

11. Allra sídast þá á eg hér, andláti minu' ad gégna, sé þá, minn Gud! fyrir siónum þér, Sonar þins pínan megna, þegar hann lagdur lágt á tré, leit til þin augum grátande, vægdu mér þá hans vegna!

## 35. Psálmur.

### Um yfirskriftina á krossinum.

Lagid er: Náttúran oll og edli manns.

Uyfirskrift Pílatus eina lét, yfir krossinum standa: Jesús nefndur af Nazareth, nýr Kóngur Gydinga landa. (Drottni med sann, Dómarinn fann, dauda sok enga stærri). Margur las pad, í þessum stad, því hann var borg svo nærri.

2. Pad var ritad og panninn sett, í þrennslags túngumáli. Valdsmenn Júda pad vissu rétt, vilia því Pilatus briáli; hann ansar greidt, ei skyldi neitt umbreytt og framar tiádi: hvad skrifad er, skal standa hér. Svo skédi' af Drottins rádi.

3. Þar nú á krossi Herrann héck, hér ad, mín sála! gætum, virdíngar titil fagrann féck, med forpríss sakleysis mæium, ad hjálpar-fús, heitir Jesús, heimsins Lausnarinn gódi, hvor diosst frá, oss frelsa má, flecklaus med sínu blódi.

4. Nazarenus hann nefnist Þar, náttúru spillíng manna fráskilinn einn ad vísu var, velþecka-hlýdni sanna, sýndi hann hreint, lióst bædi og leynt, lifanda Gudi einum, hans tignar Son, trúr, forsjáll Þión, tryggur í ollum greinum.

5. Kóngur Gydínga klár og hreinn, í krapti gudlegum drottnar, sá Davíds stól skal erfa einn, aldrei hans ríki Þrotnar, Jsraels hrós, heidinna liós, heitinn forsedrum lengi, svoddann titel, sómdi rétt vel, sál mín! Þinn Herra fengi.

6. Svoddan virdíngu vildu hann, vondir Gydíngar sneida, heiptar osundin í Þeim brann, af Því Pilatum beida, ordtak Þad brátt, á annann hátt, úrfæra settum máta; hann qvad vid nei, Því Þad vill ei, Þeim Drottinn veitast láta.

7. Dramb-

7. Dramblátum setur Drottinn skamt, med diorfúng sina' og hrecki, þeim lídst svo sem hann leysir framt, lengra komast þeir ecki; allt skal mitt traust, efunarlaust, á hans makt jafnan standa, hvad munu mér, þá mennirner, mega í nockru granda?

8. Í þrennslags túngum var þetta skrád, þvíad vor Herrann mildi, vildi sin elska, ást og nád, allri þiód birtast skyldi, hvort túngumál, med hug og sál, heidri þig, Jesú gódi! sem qvölin þín, og krossins pín, keypti frá synda módi.

9. Géfdu ad módurmálid mitt, minn Drottinn! þess eg beidi, frá allri villu klárt og qvitt, krossins ord þitt útbreidi, um landid hér, til heidurs þér, helst mun þad blessun valda, medan þín nád lætur vort lád, lídi og bygdum halda.

10. Handskrift var ein yfir hofdi mér, hún mína sálu grætti, önnur stód, Jesú! yfir þér, sem ángur vors hiarta bætti; Jesú! þú ert, útvalinn bert, undir Kóngs-stiórnun þinni, árla og síd, um alla tíd, óhætt er sálu minni.

# 36. Psálmur.

## Um skiptin á Kristí klædum.

Lagid er: Hvar mundi vera hiartad mitt.

Stridsmenn þá høfdu krossfest Krist, klædnad hans tóku snart, skiptu í stadi fióra fyrst, sá skyldi hvør sinn part, á kirtil prionadann lióst med list, løgdu þeir hlutfall diarft, fólsku-verk medan fullgiørdist, fólkid á horfdi margt.

2. Ritníng sú eina uppfyld er, ádur var þar um skréd: skrúda mínum þeir skiptu sér, skirlega þad er tiád: hlutfallid yfir fat mitt fer, sæ eg þess einninn gád. Set madur slíkt fyrir siónir þér, siá Drottins miklu nád.

3. Nú máttá skilia nakinn var, negldur Drottinn á kross, opinbert sáu allir þar, útrunninn dreira-foss; svoddan forsmán Guds Sonar bar, sannlega fyrir oss, hér géfst øllum án hylmíngar, himneskt miskunar hnoss.

4. Kalla eg merki klædin hans Kristnina' í heimi hér, um fiórar áttir foldar-rans, flockur sá dreifdi sér; lífs-kirt-

ill þessi Lausnarans, líknar-ord blessad er, vilie því skipta skinsemd manns, skilníng sannleiksins þver.

5. Ei lét vor Drottinn audlegd há, eptir í þessum heim, klædin, sem hann bar hiádi á, enn hvorki gull né seim, þó mátti ei hans Módir fá, hid minsta' af ollum þeim, íllir mennshendi yfir þau slá, aldrei því dæmi gleym.

6. Safna hóflega heimsins aud, hug-sykin sturlar géd, þigg af Drottni' þitt daglegt braud, duga lát þér þar med; holdid þá jordin hylur raud, hlotnast má ímsum féd, svo þig ei ginni girnd-in snaud, gæt vel hvad hér er skéd.

7. Strids-manna heipt og hardhyge, Herrans qvol gat ei mykt, þó viti nóg hann særdur sé, sinnid var íllsku-ríkt. Þeir, sem fátækann firra fé, fólsku-verk drýgia slíkt; Gud láti þig ei glæp þann ské, þú giorir annad þvílíkt!

8. Nakinn á krossi héckstú hér, Herra minn Gud og mann! fullnadar borgun fengin er, fyrir mig syndugann, þá sórn Drottinn og sál mín sier, sú gledst en blídkast hann, brúdkaups klædnad tilbióstú mér, þann besta'eg girnast kann.

9 Hent-

9. Hentuglega féll hlutur sá, Herra minn Jesú kiær! þú léttst mig aumann finna' og sá, fagnadar ord þín skiær, þeim klædafaldi þreifa' eg á, þegar mig hrigdin slær, straumar eymdanna stod-vast þá, styrk nýiann hiartad fær.

10. Hér þó nú skipti heimurinn, hlæ-andi audi sín, endast sá glaumur eitt-hvørt sinn, þá æfin lífsins dvín; mér láttú hlotnast, Herra minn! hlutfall nærst krossi þín, svo dírdar fegursti dreiri þinn, driúpi á sálu mín!

## 37. Psálmur.

### Annad Ord Kristi á krossinum.

Lagid er: Vari nú Gud oss ecki hiá.

Uppreistum krossi Herrans hiá, hans Módir standa nádi, sverdid, sem fyrr réd Símeon spá, sál og líf hennar þiádi, Jóhannes einnig Jesú kiær, jafnt var þar líka staddur nær, gloggt sá ad ollu gádi.

2. Sinni Módur hann segia réd: Son þinn lít þú þar qvinna; vid lærisveininn líka med Lausnarinn blídt

blídt nam inna: siá þú og mó du r
þín a þar, þadan í frá (sem skyldugt
var), sá tók hana til sinna.

3. Sá sem hlýdninnar setti bod, sinni
blessun réd heita, þeim ed foreldrum
styrk og stod, stunda med elsku' ad veita;
svoddan' dygdanna dæmid hér, Drott-
inn vor siálfur gaf af sér, bornunum
eptir ad breyta.

4. Gyrnist þú, barn mitt! blessun fá,
biorg lífs og gæfu sína, foreldrum skaltú
þínum þá, þócknun og hlýdni sýna;
úngdóms þverlyndid optast nær, ólucku'
og slís ad launum fær, hreckvísa hefnd-
ir pína.

5. Eckiurnar finna einnin hér, ágæt-
is huggun blída, Jesús allt þeirra áng-
ur sier, umsión þeim veitir frída, ef
þær med hreinum hug' og sid, halda
sig Drottins pínu vid, og hans hiálp-
rædis bída.

6. María Drottins módir kiær, merk-
ir Guds kristni sanna, undir krossinum
optastnær, ángur og sorg má kanna, til
hennar lítur þó Herrann hirt, huggun-
ar ordid sendir dírt, og forsión frómra
manna. 7. Þad

7. Þad reyniſt opt í heimi hér, hlut-ſall Drottins áſtvina, hormúnga ſverd-id ſárt þá ſkér, ſæld líſſins gledur hina, hvorier þó Kriſtum hata meſt, heſir þad laungum vidgengeſt, lítt vill því ángri lina.

8. Enn þeir, ſem Jeſúm elſka' af rót, undir hans kroſſi ſtanda, Herrans blód-ſadmi horſa' á mót, hvorn þeir líta í anda, trúar og vonar ſiónin ſett, ſár hans og beniar ſkoda rétt, þad mýkir mein og vanda.

9. Jeſús einninn med áſt og nád, aptur til þeirra lítur, géſur hugſvolun hiálp og rád, harma-bönd af þeim ſlít-ur, adgætin ſodurs augun klár, oll reiknar ſinna barna tár, adſtod þau aldrei þrýtur.

10. Jeg lít beint á þig, Jeſú minn! jaſnan þá hrigdin ſærir; í mínum kroſſi kroſſinn þinn, kroptuglega mig nærir; ſérhvort einaſta ſárid þitt, ſannlega grædir hiartad mitt, og nýiann ſögn-ud ſærir.

11. Þá eg andvarpa, óſka' og bid, augunum trúar minnar, lít eg hvort einaſt'

einast' ordid vid, upp til kroſſ-pínu þinn-
ar, strax ſýna mér þín ſignud ſár, ſynd-
ugum manni opinn stár, brunnur bleſſ-
unarinnar!

12. Gledi-ſtund holds þá géfur mér,
Gud minn, ad vilia ſinum, uppá þig,
Jeſú! horfi' eg hér, hiartans augunum
mínum, audlegdar gædin líkamlig, láttú þó
aldrei villa mig, frá kroſſins fadmi þínum.

13. Jónas ſat undir einum lund,
engra meina því kéndi, hádegis ſólar
hita-ſtund, hann ei til ſkada brendi; Jeſú
kroſs-ſkugga ſkiólid hér, ſkýlir þó lángtum
betur mér, fyrir Guds heſndar-hendi.

14. Hvört eg ſef, vaki, ſit, edur ſtá, í
ſælu' og hættum nauda, kroſſi þínum eg
held mig hiá, horfandi' á blód þitt rauda;
lát mig einninn þá æfin þver, útaf ſofna
á fótum þér, ſvo qvíd'eg ſíſt vid dauda.

## 38. Pſálmur.

### Um brixlin, ſem Kriſtur leid á kroſſinum.

Lagid er: Jeſús, ſem ad oſs frelſadi.

Þeir ſem ad Kriſti kroſſi ſenn komu
og fram hiá gengu, hriſtu med
hád-

hádúng høfuden, honum til brixlis fengu; heit-ord sin hefdi hann haldid lítt, Herrans musteri ad brióta, á þremur døgum annad nýtt, efna med bygging flióta.

2. Tveir lugu svoddan fals-menn fyrst, fyrir Caiphas's dómi, af því hafdi þad útborist, eptir fiolmennis rómi, þessir þó hafi heyrt og sied, Herrans jardteiknir frídar, lýgin þeim betur gafst um géd, gengur svo enn til vídar.

3. Øldúngar landsins, fólkid flest, og flockur heidinn strídsmanna, Herrann vorn Jesúm hæddu mest, med Høfdíngium Prestanna, søgdu: ef ertú Son Guds kiær, sá þig med krapti stydur, kom þá hér, svo þad siáum vær, siálfur af krossi nidur

4. Hann, sá ed ødrum hefir hér, hiálpad og læknad marga, megnar nú ecki ad sønnu sér, siálfum úr neyd ad biarga; svoddan hádyrdi, hróp og dár, hlaut þá Jesús ad lída, stód þad yfir um stundir þriár, stutt var andláts ad bída.

5. Þá

5. Þá fram hiá Kristi krossi nú, kalsandi held eg gánga, sem ecki' af hiartans ást og trú, elska hans pínu stránga, heilagleik sínum hrósa fri, vid holdsins skýsn sig binda, sídan falla örvænting í, eda forherdíng synda.

6. Ad þínum krossi Kristi kiær, kém eg, sem einn framandi, géf þú mér leyfi' ad gánga nær, géd mitt styrki þinn andi, svo eg hugleidi hvad til kom, hádúng, bríxl-ord og pínu, leidstú, mann-gædsku mildin fróm! móti andláti þínu.

7. Sál mín og líf þær sæmdir hlaut, siálfs Guds musteri' ad heita, í skirninni' því eg þín ad naut, þad nam Guds andi veita, sídan hefir þad syndin mörg, sárlega giort ad brióta, holds náttúran því elskar örg, athæfid heimsins lióta.

8. A þremur dögum þar á mót, því hét eg mörgu sinni, med ydrun, trú og yfirbót, aptur þad bætast kynni; æ! hvad veitir slíkt ervidt hér, efnin og dug vill þverra, bríxlid sem til var búid mér, bar því Jesús minn Herra.

9. Í velaengninni' eg hrósa hátt, hraustleika trúarinnar, í mótlætinu' hún bilar

 brátt,

brátt, brest finn eg stórann hennar, enginn fullkominn á mér siest, ávoxtur dygda sætir, bar því fyrir mig bríxlid vest, blessadur Jesús mætur.

10 Hiálpa lætst eg med heilnæm rád, hinum, sem illa breyta, siálfs míns líta þó sist sæ gád, svoddan má blindni heita, mér var þar stærsta minkun ad, mátti hádyrdum qvída, burttók nú Jesús bolid þad, bríxlin því vildi' hann líða.

11. Jesú! í þínu andláte, yfir þig bríxlin dundu, ad svo í fridi ønd mín sé, á minni dauda-stundu; hádúng leidst þú af ollum einn, alla frá hádúng leystir, aldrei tapast sá neckurr neinn, er nafn þitt uppá treystir.

12. Nær sem hreckvísra hádúng ný, hiartad mitt sárt vill stánga, undir þinn kross eg feginn flý, fram-hiá skal eigi gánga, þar stend eg kyrr þó kals og spé, qveiki mér heims óblída, uppá þig, Jesú! einn eg sie, allt vil eg med þér líða.

13. Fyrst þú varst hæddur, Herra! þá harma qvol leidstú slíka, svo heidri þig nú hédan í frá, himnar og jordin líka! allir Englar og oll heims-mind,

und-

undir þitt vald sig hnegi, og eg þar uppá allm mannkind, Amen af hiarta segi.

## 39. Psálmur.

### Um Ræníngians ydrun.

Lagid er: Einn Herra eg best ætti.

Annar ræníngiun rœddi, sem ressad þad sinn var, Herrann vorn Jesúm hœddi, hann gaf þetta andsvar: ef þar von er til nockur, ad þú Guds Sonur sért, hiálpa þér og svo ockur, úr þessum naudum bert.

2. En hinn þar uppá gégndi: ecki hrædist þú Gud, hvörium straffs heiptin hegndi, hún var rétt forþénud; vid megum vel medtaka, verka betalíng þann, en þessi er alls án saka; eptir þad sagdi hann:

3. Hugsa þú til mín Herra, þá heldur þú ríki þitt! ást Drottins ei nam þverra, andsvar lét heyra sitt: sannlega eg þér segi, (sú er huggunin vís), þú skalt á þessum degi, mér þióna' í Paradís.

4. Siá hér fyrst straffid synda, sála mín! hriggilegt, forherdíng hiartans blinda, þó holdid qvelíest frekt. Géfdú mér, Jesú gódi! eg gégni vel hirtíng þín, med trú og tára-flódi, og tiái þér brotin mín.

5. Ræníngians ydrun eina, athugum líka med, hann giørdi játníng hreina, hatadi íllverk skéd, því sagdi' hann væri ad vonum, verdlaunin ránglætes, ávítun veitti honum, sem vildi' ei gæta þess.

6. Hann trúdi': á himnaríki, hefdi vor Jesús rád, þó syndugra syndist líki, svo treysti á hans nád, med blygdun og hreldum huga, Herrann sin minnast bad, liúflega lét sér duga, loford ef fengi þad.

7. Hróp og hárevsti giørdu, Heidnír og Júdar þar, kríngum krossinn á jordu, med kalls, bríxl og hádúngar, svarad' ei Son Guds neinu, þó siálfann þad snerti hann, en syndugs manns ordi einu, án dvalar gégna vann.

8. Sætt mér fyrir siónum skartar, sæll Jesú! gædskan þín, þér géck heldur til hiarta, hans neyd enn siál's þíns pín; sama hefir þú sinni, vid syndug-

ar sképnur hér, því aldrei elsku þinni, aptur, minn Herra! fer.

9. Illvirkinn hafdi unnid, ódáda-verkin stærst, gotu glæpanna runnid, greidt fram í daudann nærst; en Jes-ús ecki vildi, á það neitt minnast nú, svo var mikil hans mildi; mín sál! það hugleid þú.

10. Enginn orvænta skyldi, þó ydrast hafi seint, sem er Guds Sonar mildi, sé annars hiartad hreint, því hvorki vid stadi né stundir, stýlud er Drottins nád, allt fram andlátid undir, ofs býdst hans hiálpar-rád.

11, En þú skalt ecki treysta, óvissri dauda-stund, né Guds med glæpum freista, giorandi þér í lund: nádar-tím-inn sé nærsta, nógur hondum fyrer; slíkt er hættusemd hæsta, henni Gud fordi mér!

12. Svo margt eg syndgad hefi, sorg-in mig sturlar má, ydrun Guds nád mér géfi, glóandi von og trú. Herra Jesú hiartkiæri! hugsa þú til mín þá, dapur er daudinn nærri, og drag mig qvolum frá!

## 40. Psálmur.

### Þridia Ord Kristi á krossinum.

Lagid er: Skaparinn stiarna, Herra hreinn!

Uppá ræníngians, ord og bón, ansadi Guds hinn kiæri Son: þú skalt sannlega segi' eg þér, sælu-vist hafa í dag med mér.

2. Siádú med gætni, sál mín kiær! sonn ydran hvöriu kraptad fær, uppá þad dæmid er hér rétt, öllum til lærdóms fyrirsett.

3. Reidi Drottins þá uppegnd er, yfir ránglæti mannsins hér, ydranin blídkar aptur Gud, ei verdur syndin tilreiknud.

4. Þó komi hostug hefndin brád, hrein ydran jafnan finnur nád, midt í standandi straffi því, stillist Guds reidi uppá ný.

5. Samvitsku orma sárin vest, sonn ydran jafnan grædir best, hugsvalar sál og huggar géd, heilaga Engla gledur med.

6. Bæn af ydrandi hiarta hír, hún er fyrir Gudi metin dír, Herrann Jesús á hvorri tíd, henni gaf jafan andsvor blíd.

7. Sem

7. Sem Móíses med sínum staf, sætt vatn drô fordum steini af, eins fær ydrandi andvarp heitt, út af Guds hiarta miskun leidt.

8. Játníng mín er sú, Jesú minn! jeg er, sem þessi ræninginn, já, engu betri fyrir augsýn þín, ef þú vilt reikna brotin mín.

9. Kém eg nú þínum krossi ad, kannast þú, Jesú minn! vid þad, syndanna þúngi þiakar mér, þreyttur eg nú ad mestu er.

10. Alnakinn þig á einu tré, út þínar hendur breidande, sárin og blódid signad þitt, sier nú og skodar hiartad mitt.

11. Þar vid huggar mín sála sig, svoddan allt leidstú fyrir mig, þíns hiarta-dreira heilög lind, hreinsar mig vel af allri synd.

12. Krossins burtnúminn qvölum frá, Kóngur ríkir þú himnum á, Herra! þegar mig hrellir pín, hugsadu' í þinni dírd til mín.

13. Segdú hvörn morgun svo vid mig, sæti Jesú! þess beid'eg þig: í dag þitt hold í heimi er, hiartad skal vera þó hiá mér.

14. Í dag (hvørn morgun eg svo bid), aldrei lát mig þig skiliast vid, hugur, sinni og hiartad mitt, hugsi og stundi á ríkid þitt.

15. Eins þá kémur mín andláts-tíd, ordin lát mig þau heyra blíd: í dag (segdú) skal sálin þín, sannlega koma í dírd til mín.

16. Herra minn! þú varst hulinn Gud, þá hædni leidst og krossins naud, þó hafdir þú med hærstri dád, á himnaríki vald og rád.

17. Daudanum mót mér diorfúng ný, daglega vex af ordi því: í dag, þá lídur ei lángt um þad, leidd verdur ønd í sælu-stad.

18. O Jesú! séu ordin þín, andláts sídarsta hugun mín, sál minni verdi sælan vís, med siálfum þér í Paradís!

## 41. Psálmur.

### Fiórda Ord Kristi á krossinum.

Lagid er: Af diúpri hrigd ákalla' eg þig.

Um land giørvallt vard yfrid mirkt, allt nær frá siøttu stundu, sólin

því

því liéma sinn féck birgt, senn til hinnar níundu: Gud minn, (Jés: ús svo hrópar hátt), hvar fyrir gleymdir þú mér brátt? svoddan mín sál! vel mundu.

2. Enginn skal hugsa'ad Herrann þá, hafi med efa og brædi, hrópad þann: inn og horfid frá, heilagri þolinmædi, syndanna krapt og qvalanna stærd, kynnir hann oss, svo verdi hrærd, hiortun frá hreckia ædi.

3. Sólin blygdast ad skína skiær, þá Skapara sinn sá lída, hún hafdi ei skuld, (þad vitum vær) þess voda mein: sins strida; o! hvad skyldi þá skammast sin, sképnan, sem Drottni jók þá pín, med hrigd og hiartans qvída.

4. Avi! hvad má eg annar þræll, ángradur nidur drúpa, þá eg heyri, minn Herra sæll! sú harma bylgian diúpa, géck yfir þig, þá galdstú mín; giarnan vil eg ad fótum þín, feginn fram flat: ur kriúpa.

5. J ytstu mirkrum um eilífd er, óp og gnistran tannanna, hefndar:straff þad var maklegt mér, fyrir margfiöldann glæp:

anna, frá því, Jesú! þú frelstir mig, frekt gengu mirkrin yfir þig, svo skyldi eg þá qvøl ei kanna.

6. Í svortu mirkri það sama sinn, sorgar-raust létstú hlióma, þá hrópadir þú mig Herra inn, í himneskann dírdar-lióma; í því lióſi um eilíf ár, út-hrópa skal mín raustin klár, lof þinna leyndardóma.

7. Synda, sorga og mótgángs med, mirkrin svo. opt mig pína, ad gloggt fær ecki sálin sied, sælu-geislana þína; Jesú réttlætis sólin sæt, syrgiandi eg það fyrir þér græt, harma-raust heyr þú mína!

8 Gud minn! segi eg giarnan hér, geist þó mig sorgin mædi, Jesú! eg læri nú það af þér, það skulu mín úr-rædi, giorvoll þá heimsins gledin dvín, Gud minn! eg hrópa vil til þín: Gud minn allt bæt mitt grædi!

9. Yfirgéfinn qvad Son Guds sig, þá særdi hann qvølin megna; yfirgéfur því aldrei mig, eilífur Gud hans vegna, fyrir þá Herrans hrigdar-raust, hærstur Drottinn mun efalaust, grát-beidni minni gégna.

10. Þá sólar-birtunni' eg sviptur er, sjón og heyrn tekur ad dvína, raust og málfæri mínkar mér, mirkur daudans sig sýna, í minni þér, Drottinn sæll! þá sé, Sonar Þíns hróp á krossins tré, leid sál til lífsins mína!

## 42. Psálmur.

### Fimta Ord Kristi á krossinum.

Lagid er: Eins og sitt barn, fadir ástargiarn.

Í sárri neyd, sem Jesús leid, sagdi hann gløggt: mig þyrstir. Svo Ritníng hrein, í hvørri grein, upp-fylltist ein; um þad mig ræda lystir.

2. Strax hliép einn ad, þá heyrdi þad, hitta niardarvøtt kunni, lét á reir-prik, drap í edik, med íllt tilvik, og bar Jesú ad munni.

3. Forundrast má, mín sál! þar á, madurinn hvør þess gætir, ad hann sem rád, hefir med dád, á himni' og lád, hørmúng þvílíkri mætir.

4. Hann sá sem vín, af valdi sín, úr vatni sætt tilreiddi, med sorgar-skick, fécck súrt edik, fyrir svala-dryck, þá sárt hann þorstinn neyddi.

5. Því mundi' ei hér, til hlífdar sér, Herrann edikid lika, sem vín ágætt, giora vel sætt, fyrst gat þad bætt, hans Guddóms maktin ríka?

6. Komin var tíd, kraptaverk fríd, Kristur ei giora skyldi, hin stundin þá, fyrir hendi lá, hrigd, qvol og þrá, Herrann vor lída vildi.

7. Kraptaverk hrein, kéndu þá grein, ad Kristur Guds Sonur væri, en qvolin hans, syndi til sanns, ad syndugs manns, sektir og giold hann bæri.

8. Guds einka Son giordist vor þión, þá græddi' hann mein og qvída, offurlamb best, hann ordinn sést, fyrir utan brest, í því hann qvol nam lída.

9. Af strídi því, sem stód hann í stikleiki manns náttúru, þreytast miog vann, því þyrsti hann, þádi vokvann, þó af ediki súru.

10. Í annann stad, merk, madur! þad, og minst þess hvoriu sinni: ad Herrann Krist, hefir mest þyrst, af ást og lyst, eptir sáluhiálp þinni.

11. O madur! nú, þenk þar um þú, þinn hugur blygdast skyldi: Gud þyrsti hér,

hér, ad hiálpa þér, en hiartad þitt er, óþyrst eptir hans mildi.

12. Heyr þú, sál mín! talar til þín, trygda brúdgumin gódi: þyrstur eg er, í hrigdum hér, svo hiálpi eg þér, úr hættu qvalanna flódi.

13. Ber honum síst, þess bid eg víst, beiskann dryck hræsnis anda, ordin hans hrein, á alla grein, fyrir utan mein, óbriálud láttú standa.

14. Uppá ord þín, svarar sál mín, sorgin þó málid heptir: þyrst er eg nú, og þad veitstú, þýdi Jesú! þinni miskunsemd eptir.

15. Ecki er hiá mér, þad þyrstum þér, þori eg nú fram ad bióda, nema fá tár, trú veik, þó klár, sem til þín stár, tak þad og vird til góda.

16 Lof, dírd sé þér, lausn fécstú mér, og létst þig svo miklu kosta, hiartad á ný, huggast af því, ad eg er frí, frá eilífum qvalaþorsta.

## 43. Psálmur.

### Siøtta Ord Kristí á krossinum.

Lagid er: Allfagurt liós oss birtist brátt.

Eptir ad þetta allt var skéd, edikid Jesús smacka réd, þrótt og lífskrapta.

krapta hverra fann, það er full-komnað sagði hann

2. Orð þíns Herra með ást og trú, athuga skyldir, sál mín! þú, ef þeirra grundvöll sannann sier, sæta huggun þau gèfa þèr.

3. Fyrst skaltú vita, að Guð útgaf, greinilegt lögmál himnum af, hann vill að skuli heimi í, hvörr maður lifa eptir því.

4. Algiört rèttlæti ljóst og leynt, líkama, sál og geðið hreint, syndalaus orð og atvik með, af oss lögmálið heimta rèð.

5. Hugurinn vor og hiartað sè, í hreinni elsku rètt brennande, fyrir utan hræsni, bræði og bann, bæði við Guð og náúngann.

6. Hvör þetta gæti haldið rètt, honum var lífið fyrirsett, en ef í einu út af brá, eilíf fordæming við því lá.

7. Enginn maður frá Adam fyrst, eptir þann dag hann syndgaðist, fullnægiu gat því giört til sanns, gengur það lángt yfir eðli manns.

8. Óbærileg var allra sekt, eptir því Drottinn gèck svo frekt, annaðhvört skyldi

skyldi uppfyllt þad, eda mannkynid fortapad.

9. Jesús eymd vora alla sá, ofan kom til vor jordu á, hædum himna upprunninn af, undir lögmálid sig hann gaf.

10. Viliuglega í vorn stad géck, var sú framqvæmdin Gudi þeck, födurnum hlýdni fyrir oss galdt, fullkomnadi svo lögmál allt.

11. Enn svo ad synda sektin skéd, sannlega yrdi forlíkt med, og bölvan lögmáls burtu mád, beiska qvöl leid og daudans hád.

12. Þá hann nú hafdi allt uppfyllt, sem oss var siálfum ad giöra skyldt, og bæta öll vor brötin frí, berlega vildi hann lýsa því.

13. Þess vegna Herrann hrópa nam, hartnær á krossi stiginn fram, ad oss í voru andláte, öll hans verdskuldan huggun sé.

14. Svoddan adgæt þú, sála mín! Sonur Guds hrópar nú til þín, hvad þér til frelsis þéna kann: Þad er fullkomnad! segir hann.

15. Full-

15. Fullkomnad lögmál fyrir þig er, fullkomnad giald til lausnar þér, fullkomnad allt þad fyrir er spád, fullkomna skalt þú eignast nád.

16. Herra Jesú! eg þacka þér, þvílíka huggun gafstú mér, ófullkomleika allann minn, umbæti Guddóms kraptur þinn.

17. Hiálpa þú mér svo hiartad mitt, hugsi jafnan um dæmid þitt, og haldist hér í heimi nú, vid hreina samvitsku' og rétta trú.

18. Uppá þessi þín ordin traust, óhræddur dey eg qvídalaust, því sú frelsis fullkomnan þín, forlíkad hefir brotin mín.

## 44. Psálmur.

### Siøunda Ord Kristi á krossinum.

Lagid er: Herra Gud í himnaríki.

Hrópadi Jesús hátt í stad, holds megn og kraptur dvínar: eg fel minn anda, Frelsarinn qvad, Fadir, í hendur þínar.

2. Þú, kristinn madur! þenk uppá, þíns Herra beiskann dauda, ad ordum

hans

hans og einnin gá, eru þau lækníng nauda.

3. Jesús haldinn í hærstri qvøl, hladinn med eymdir allar, dapurt þá adgéck daudans bøl, Drottinn sinn Fødur kallar.

4. Herrann vill kénna þar med þér, þín ef mann-raunir freista, gódlyndur Fadir Gud þinn er, giørir þú honum ad treysta.

5. Fyrir Jesúm þú fullvel mátt, fødur þinn Drottinn kalla, enn þó þig krossinn þvíngi þrátt, þad mýkir hørmúng alla.

6. Eins og fadirinn aumkar sig, yfir sitt barnid siúka, svo vill Gud einninn annast þig, og ad þér í miskun hiúka.

7. Einninn sýna þér ord hans tvær, ódaudleik sálarinnar, þó kroppurinn verdi kaldur nár, krenkist ei lífid hennar.

8: Hvar hún finnur sinn hvíldar-stad, Herrann sýnir þér líka, hønd Guds þíns Fødurs heitir þad; hugsa um rædu slíka.

9: Vilier þú eptir endad líf, egi þín sál þar heima, undir hønd Drottins hér þá blíf, hans bodord skaltú geyma.

10. Láttú

10. Láttú Guds hond þig leida hér, lífs-reglu haldt þá bestu, blessad ord hans sem bodast þér, í brióst' og hiarta festu.

11. Hrind þú ei frá þér Herrans hond, hún þó þig tipta vildi, legg heldur bædi líf og ond, liúflega' á Drottins mildi.

12. Hér þegar mannleg hiálpin dvín, holdid þó qveinj' og ſhti, uppá hend Drottins augun þín, ætíd í trúnni líti.

13. Ad morgni' og qvoldi minst þess vel, máls uppteft láttú þína: af hiarta' eg þér á hendur sel, Herra Gud! sálu mína.

14. Svo máttú vera viss uppá, vilie þér daudinn granda, sála þín mætir mist-un þá, millum Guds Foodurs handa.

15. Hún finnur eckert hrigdar-stríd, hormúng né mædu neina, í fridi skodar ætíd blíd, ásiónu Drottins hreina.

16. Eptirteft mér þad einnin jók, er eg þess gæta kunni, andláts bæn sína siálfur tók, Son Guds af Davíds munni.

17. Bæn þína aldrei bygdú fast, á brióst-vit náttúru þinnar, í Guds ordi skal hún grundvallast, þad gefur styrk trúarinnar.

18. Vér vitum ei hvors bidia ber, blindleikinn holds því veldur, Guds ordsýnir þann sannleik þér, sæll er sá þar vid heldur.

19. Vertú, Gud Fadir! fadir minn, í Frelsarans Jesú nafni, hönd þín leidi mig út og inn, svo allri synd eg hafni.

20. Höndin þín, Drottinn! hlífi mér, þá heims eg adstod missi, en nær sem þú mig hirtir hér, hönd þína eg gladur kyssi.

21. Daudans stríd af, þín heilög hönd, hiálpi mér vel ad þreyia, medtak þá, Fadir! mína önd, mun eg svo gladur deyia.

22. Minn Jesú! andláts ordid þitt, í mínu hiarta' eg geymi, sé þad og síkasta sídast mitt, þá sofna eg burt úr heimi.

## 45. Psálmur.

### Um Jesú dauda.

Lagid er: Fadir vor, sem á himnum ert.

Þá Frelsarinn í Födurs hönd, sól nú blessadur sína önd, nidur sitt höfud hneigdi fyrst, Herrann í því hann sáladist. Drottinn vor þanninn dó á tré, dásemd kunnj ei meiri' ad ské.

2. Sancte

2. Sancte Páll segir í sannri raun, syndarinnar sé daudinn laun, bana-spiót eru brotin liót, bodordum Drottins giørd á mót, sá skal deyia, sem syndgar hér, svoddan úrskurdur réttur er.

3. En þad hér heima átti síst, af því Jesús er saklaus víst, af helgum Anda med hreinum sid, hann var gétinn í meyiar-qvid, Guds Fødurs veru fegurst mind, friáls lifdi' og dó af allri synd.

4. Hvørki ressíng né heliar bad, hafdi nú Jesús forskuldad, hvad kom þá til ad Herrann leid, harda pínu og beisk-ann deyd? eda hvar fyrir hirtist hann, hegníngar til sem aldrei vann?

5. Guds Andi þar á giørir skil, greinir þvílíka orsøk til; vegna misgiørda vorra hér, vissulega hann særdur er, því Drottinn lagdi svo fyrir sann, syndir-nar vorar uppá hann.

6. Siá hér, mín sál! fyrir syndir þín, Sonur Guds lídur qvøl og pín, hann dó fyrir þig, sem daudans bad, dár-lega hafdir forskuldad, hann lét sitt líf svo lifdir þú, lífs eilífs von því áttú nú.

7. A mig var fallin þyngsta þraut, þvíad eg Drottins løgmál braut, samvitsku særdi synda gráð, svo fêck daudinn sterk yfirráð, til fordæmingar mér fioturin hans, fastlega hêldu víst til sanns.

8. Løgmál safnadi sektum mér, sektinni daudinn eptir ser, daudinn til dómsins dregur snar, dómurinn straffid úrskurdar, straffid um eilífd aldrei dvín, eilíf því var hin þyngsta pín.

9. Løgmálid hêr sig forgreip fyrst, selldi þad dóm yfir Herrann Krist, þad baud ad sá bølvadur sé, sem bana lídur á einu trê, diarflega eptir því daudinn gêck, Drottinn frá lífi skilid fêck.

10. Sekt þá, sem løgmál setti mér, siálfur borgadi Jesús hêr, þad misti sína makt í því, mig verdur nú ad láta frí, daudans broddur var brotinn þá, burt hans fángelsi slapp eg frá.

11. Eilífur daudi deyddur er, daudi Jesú þad vinnur hêr, dírt metur Drottinn dauda minn, daudi! hvar er nú broddur þinn? daudinn til lífs nú stutt er stig, stórlega daudinn batar mig.

12. Daud-

12. Daudinn því orkar einn til sanns útslockna hlýtur lífid manns, holdid legs í sinn hvíldar-stad, hans makt nær eck léngra enn þad, sálin af ollu fári frí flutt verdur himna sælu í.

13. J þínum dauda, o Jesú! er mír lífgiof og huggun trú, dásemdar kraptur dauda þíns, dreifist nú inn til hiarte míns, uppá þad synd og íllskan hver út af deyi í brióstí mér.

14. Þú hnegdir þínu hofdi lióst, Herra þegar á krossi dóst, med því bendti þú mér þad sinn, ad minnast jafnan á dauda þinn; eins þá eg dey, skulu aug gun mín, upplíta, Drottinn sæll! til þín

15. Fyrir þann deyd, sem þoldir þú, þig bid eg, Jesú! um þad nú, ad géfi mér þín gædskan blíd, góda kristins manns dauda tíd, hold mitt lát hvílast hægt med frid, hond þín sálunni taki vid!

## 46. Psálmur.

### Um teiknin, sem urdu vid Kristí dauda.

Lagid er: Þá linnir þessi líkams víst.

Þegar Kristur á krossins tré, kannadi daudann strída, teikn og stór merk

merki mestu ské, mælir svo Ritning frída, musteris-tialdid miøg umyendt, í midiu vard ad rifna í tvent, hrist-ist jørd harla vída.

2. Sundur-klofnudu biørgin blá, birgd leidin opnast fóru, líkamir daudra lifna þá, lít hér þau undur-in stóru, eptir Lausnarans upprisu, inní borgina vitiudu, af sumum þar sienir vóru.

3. Hvad hér historian hermir rétt, hygg ad því, sál mín mæta! Þér til lærdóms er það framsett, þess áttú vel ad gæta, jørdin skalf þegar Jesús dó, jafnvel þeir hordu klettar þó, sýndu medaumkun sæta.

4. Steini hardara' er hiartad þad, sem heyrir um Jesú pínu, gefur sig þar þó ecki ad, ann meir giálífi sínu; kann nockud svoddan kaldt hugskot, Kristi dauda ad girnast not? Gud stiórni gédi mínu!

5. Þad má undra hin þánga jørd, þreydi ei kyrru'ad halda, blágrýtis einn-in biørgin hørd, bresti lidu margfalda, heldid þó ei né hiartad manns, hrigg-

ist vid pínu Skaparans, sem hans þó hlaut ad gialda.

6. Fortialdid sýnir sannleik þann, sundur þá rifna nádi, aftakast skyldi øll fyrir sann, eptir Guds settu rádi, Gydínga-kynsins kóngleg stiórn, Kénnivaldid og løgmáls fórn, sem Ritníng siálf um spádi.

7. Hindrun réd øllum ærid stór, inn í Guds ríki banna, því veldur synda-sektin vor, og saurugleikinn verkanna; en fyrir Jesú dírstann deyd, Drottinn tilbió oss opna leid, hédan upp til himnanna.

8. Hér í kristninnar helgidóm, høfum vér frelsi' ad gánga, þar bodast nád og blessan fróm, burt er þá sorgin stránga, sálin vor hefir búna braut, beint í Abrahams ględi-skaut, eptir heims hørmúng lánga.

9. Frelsarans dauda einninn ad, øndud líkin hér nióta, gudlegur kraptur giørdi þad, grafirnar opnast hlióta, því Drottins Jesú daudi' á kross, daudann sigradi fyrir oss, abl hans og brodd nam brióta.

10. Merk, ad úr jørdu mátti' ei neinn, madur frá dauda standa, fyrr enn tédi vor Herra hreinn, hold sitt aptur lifanda, fyrstur allra því uppreis hann, af eginn

krapti

krapti, og þar med fann, endurlausn oss til handa.

11. Höfdinginn krossi Herrans hiá, hér med allt folkid líka, jafnsnart, sem þetta jardteikn siá, játning þeir giørdu slíka: sannlega hefir saklaus hann, og Son Guds verid þessi mann, brióst slá og brádt heim vikia.

12. Fólkid, sem harda krossins qvøl, Kristó fyrr óska nádi, sann nú hid þyngsta í brióst bøl, beiskleg samvitskan þiádi; of-hastarlegann úrskurd flý, ef þú vilt vera af sorgum frí, hætt er rasanda rádi.

13. Daudi þinn, Jesú Drottinn! þá, dirdlegann krapt útsendi, heidnum manni svo hér vid brá, hann þig Guds Son medkéndi. Eg bid gædskunnar gédid þitt, géf þú vidlisni hiartad mitt, ad svo frá illu vendi!

## 47. Psálmur.

### Um Kristi kunningia.

Lagid er: O Jesú! elsku hreinn.

Kunníngiar Kristi þá, krossinum lángt í frá, stódu med þúngri þrá, þessa tilburdi siá.

2. Var þar og viðstadt með, að
víſu margt qvennfólked, ſár Jeſú fengu
ſteð, ſorgandi báru geð.

3. Af þeſſu, mín ſál! þú ſier, ſann-
lega hvörſu er, valt allt í heimi hér,
haf ſlíkt í minni þér.

4. Dvínar og dregſt í hlé, á dauda-
ſtundunne, vinſkapur, frændur, fé, fall-
valt hygg eg það ſé.

5. Þó vilðu vinirnier, veita hiálp nockra
þér, vorn þeirra ónýt er, enginn dauð-
anum ver.

6. Lífinu hiúkar hönd, þá herdir
ſóttar-grönd, hiálpa þó engin önd, upp-
hugſud ráðin vönd.

7. Vinſkap í ſynda ſið, ſála mín!
þeſs eg bið, haldtú ei verold við, vilier
þú ſofna' í frið.

8. Hreinann vinſkap haldt þú, við
Herra þinn Jeſúm nú, í hreinni hiart-
ans trú, frá heimſins elſku þér ſnú.

9. Hann einn má hiálpa þér, þá
hiáſtod mannleg þver, heim þig á hend-
um ſér í himna ſælu ber.

10. Það hér í ſannleik ſieſt, er Sonur
Guðs andaðeſt, ſorgin þá ſærdi meſt, ſem
hann elſkuðu beſt.

11. Kriſts born eru kroſs-born, vid Kriſtum hlydnis-giorn, hann ſhnir þeim hiálp og vorn, þó hord ſé ſútar qvorn.

12. Þú ſkyldir þar ad gá, þó þeir ſtædu lángt frá, allir ſamhuga ſiá, Son Guds kroſs feſtann á.

13. Komid ſvo konur og menn, ad kroſſinum Jeſú ſenn, þó naudin þreyngi þrenn, þar fæſt nóg lækningen.

14. Kom þú, ſál kriſtin! hér, ſem kroſs og mannraunir ber, ſettú fyrir ſiónir þér, Son Guds, ſem píndur er.

15. Uppá hans heilog ſár, horfi þín trúin klár, þad mýkir trega' og tár, temprar allt ſorgar-fár.

16. Sértú, ſyndugur mann! ſærdur um hyggiu-rann, horf þú beint uppá hann; ſem hiálp þér á kroſſi fann.

17. Hvorr ſem eyr-ormimn leit, af Iſraels manna ſveit, eitrid ei á þann beit, oll ſtilltiſt plágan heit.

18. Svo ſtór ſynd engin er, ad megi granda þér, ef þú á Jeſum ſier, ydrandi' í trúnni hér.

19. Sie eg þig, ſæll Jeſú! ſvo ſem álengdar nú, von mína og veika trú, vid bid eg hreſſir þú.

20. Þá eg sie sárin mín, særir mig hiartans pín, sárin þá sie eg þín, sorg øll og qvídi dvín.

21. Lát mig, ó Jesú kiær, aldrei svo vera þér fiær, ad siái' eg ei sár þín skiær, þá sorg og eymd mig slær.

22. Veit mér eg verdi' og sé, vin þinn og kunninge, þó hverfi heilsa' og fé, hiálp mun þá nóg í té.

23. Eg fel í sérhvørt sinn, sál og líkama minn, í vald og vinskap þinn, vernd og skiól þar ég finn.

## 48. Psálmur.

### Um Kristi sídu-sár.

Lagid er: Uppá fiallid Jesús vendi.

Ad qvøldi Júdar frá eg færi, til fundar senn vid Pílatum, og þess beiddu' ad ecki væri, øndud lík á krossinum, því hátídin var harla nærri; hér svo Ritníng greinir um.

2. Stríds-mønnum hann baud ad brióta, beinin þeirra' og svo var gert, heliar-stund þeir hrepptu flióta, hinir tveir, sem greini'eg bert, en Jes-

úm

úm létu síns lífláts nióta, límina hans ei fengu snert.

3. Stríðsmann einn með heiptar-hóti, hardlyndur géck krossi að, Lausn-arans síðu lagði spióti, lagið nam í hiarta stað, blóð og vatn þar frá eg út flióti, fyrr var áður spáð um það.

4. Umhugað er einum Drottni, allra sinna barna lík, í jörðu hér þótt hold-ið rotni, huggun traust mig gleður slík, hann vill ei tíníst bein né brotni; blessuð sé sú elskan rík!

5. Guð Drottinn með gæðsku ráði, giörði Adams síðu af, fríða qvinnu fyrst á láði, sast hann þó á meðan svaf, vaknaður þess að vísu gáði, og veglegt henni nafnið gaf.

6. Sofnaður á sinni síðu, sárið Drott-inn Jesús bar, svo að af vatni og blóði hans blíðu, bygðist heilög kristnin þar, náði hún eða nafni fríðu, nær til himna stígin var.

7. Skoða þú hvornin skírnin hreina, skiliast nú með réttu á, að vísu jafnan vatnið eina, vor líkamleg augun siá, en trúar siónin, svo má greina, Sonar Guðs blóð þar lítur hiá.

8. Æ hvad má eg sælann sanna, Sancte Thómas Postula þinn, þá sídu mátti' hann sár þitt kanna, sína hond þar lagdi inn! þú munt ei mér þiádum banna, þad ad skoda, Jesú minn!

9. Allar Jesú ædar stódu, opnadar í qvolinne, dreira lækir dundu' og flódu, um Drottins líf á krossins tré, nægd af lausnar gialdi gódu, Guds Son fyrir mig lét í té.

10. En svo eg skyldi siá og iáta, sanna elsku Drottins míns, vildi hann ecki læstar láta, lífs ædarnar hiarta síns, því er, sál mín! mikil úr máta, miskunsemi Lausnara þíns.

11. Opnar dyr á arkar sídu, inn um gengu sképnurnar, sem siálfur Drottinn baud med blídu, biargast skyldu inni þar, fyrir vatnsins flódi strídu, frelsi' og líf þeim géfid var.

12. Lífsins dyr á sídu sinni, setur Jesús opnar hér, svo ángrud sála adstod finni, oll þá mannleg hiálpin þver, hvorr sem hefir þar athvarf inni, frá eilífum dauda leystur er.

13. Nói

13. Nói um sinn arkar-glugga, upp til himins litid feck, haldinn dimmumi hrigdár skugga, hátt þá vatnsins flódid géck, svo hann mætti' um sídir hugga, sólar-lióma birtan þeck.

14. Ségnum Jesú helgast hiarta, í himininn upp eg líta má, Guds míns ástar-birtu biarta, bædi sé eg ad reyna' og siá, hrigdar-mirkrid sorgar svarta, sálu minni hverfur þá.

15. Guds var máttug mildin prýda, Móises þá steininn sló, út til allra Israels búda, ágætt svala-vatnid dró, hresti þyrsta, þiáda' og lúda, þeim svo nýia krapta bió.

16. Þá siálfur Gud á Sonarins hiarta, sínum reidi-sprota slær, um heimsins áttar alla parta, útrann svala-lindin skiær, sálin vid þann brunninn biarta, blessun og nýia krapta fær.

17. Vid þennann brunninn þyrstur dvel eg, þar mun eg nýia krapta fá, í þessi inn mig silsum fel eg, fargar engin sorg mér þá, sælann mig fyrir trúna tel eg, hún tekur svo Drottins benium á.

18. Hiartad mitt er, Herrann gódi! hriggilega saurgad miog; þvo þú þad med þínu blódi, þess af audmykt beidi eg, vinni mér bót á mædu' og módi, miskunsemin guddómleg.

19. Hiartans innstu ædar mínar, elski, lofi, prísi þig, en hiarta-blód og beniar þínar, blessi, hressi, grædi mig; hiartans þýdar þackir sínar, þér sé gædskan eiliflig!

## 49. Psálmur.

### Um Kristi greftrun.

Lagid er: Nú látum oss líkamann grafa.

Jóseph af Arimathia, edalborinn Ráð-herra sá Gydinga svik vid Son Guds stéd, samþyckt hafdi þeim aldrei med.

2. Hann var Lausnarans lærisveinn, líferins frómur dygda hreinn, Gydínga hræddist heiptar raun, hélt sig ad Kristó þó á laun.

3. Þessi um qvøldid þángad géck, þá af Pilató leifid féck, ad mætti Jesúm andadann, ofan taka og jarda hann.

4. Jó-

4. Jóseph tók strax af krossi Krist, keypti þó nýiann lín-dúk fyrst, Nicódemus kom þegar þar, þángad kostuleg smyrslin bar.

5. Jóseph grøf eina átti þar, útkløppud sú í steini var, í aldingardi þar allskamt frá, enginn fyrr daudur í henni lá.

6. Dýrdlega smurdu Drottins lík, dæmin má ønnur finna slík, byrgdu med steini búna grøf, burt gengu strax fyrir utan tøf.

7. María Jacobs módir ein, Magdalena á sømu grein, Salóme einnin sat þar hiá, sáu vors Herra greftrun á.

8. Í þeirra selskap, sál mín blíd! settu þig nidur litla tíd, greftrun þíns Herra gæt vel ad, gagnlaust mun ecki vera þad.

9. Vid Jesú greftrun jeg sæ sied, Jóseph og Nicódemum med; ádur þordu þeir ecki Krist, opinberlega ad játa fyrst.

10. Nú sá þeir nærsta nýiann dug, nóga diørsúng og styrkvann hug, auglióslega svo allir siá, elsku sem Drottni høfdu á.

11. Riúkandi trúar horinn hér, helgur Andi svo vidnærir, hömandi þar af liósid skín, lífgar hann allt med krapti sín.

12. Huggist þeir nú sem hiartad deigt, hafa og trúar megnid veikt, bidie um stirk og stødugt geđ, stundi og læri Guds ord med.

13. Veit þú, Jesú! ad veik trú mín, vaxi daglega' og elskan þín, eblist svo med mér innvortes, ytra góđ siáist merki þess!

14. Annad þú líka merkia mátt, mislíkar Drottni' á engann hátt, þó heidurleg sé hér á jord, holdi úrvaldra likför giord.

15. Mætast Guds Anda musteri, manns var rétt-kristins líkami, því má honum veitast virding rétt, vel med stilling og hófi sett.

16. Erfis-dryckiur og óhyít priál, ecki á skyldt vid þetta mál, Heidingia sickun heimskuleg, hæfir Kristnum á engann veg.

17. Ætíd þá sier þú sálad hold, sett vera nidur í jardar mold, hriggur þú vert og hugsa brátt, hér vid þú líka skilia átt. 18. Lagt

18. Lagt þegar nidur líkid sier, láttú sem daudinn hvísli' ad þér, lángt máske ecki lídi um það, legg eg þig eins í slíkann stad.

19. Gódi Jesú! fyrir greftrun þín, gef þú, sídarsta útfør mín, verdi farsæl og fridsom mér, frelsud sál nái dírd hiá þér.

20. Í þridia máta huggun hrein, hér veitist mér á alla grein: Guds Sonar hold því greftrad var, greftrun minni til virdíngar.

21. Helgum Guds børnum Herrans hold, helgadi bædi jørd og mold; grøfin því er vort svefn-hús sætt, svo má ei granda reidin hætt.

22. Svo ad lifa, eg sofni hægt, svo ad deyia, ad qvøl sé bægt, svo ad greftrast, sem Guds born hér, gefdú sætasti Jesú mér!

## 50. Psálmur.

### Um vardhalds-mennina.

Lagid er: Eins og sitt barn, fadir ástargiarn.

Oldúngar Júda annars dags, inn til Pílatum gengu strax, sögdu:

Herra! vær høfum mest, í huga fest, hvad sá Falsari herma létst.

2. Eptir þriá daga (ódt fyrir sann), uppríſa mun eg ſagdi hann: vid slíku er best ad leita lags, lát geyma strax, þessa grøf inn til þridia dags.

3. Mástké líkid med leyndum hliódt, læriſveinar hans taki um nótt, og lidnum ſegi þad lyga-skin; þá lítst ei kyn, þó verdi sú villan verri enn hin.

4. Pilatus víst þeim vardhald féck, vaktin strax út af stadnum géck, grøfinni blifu Herrans hiá, og ſvo til ſiá, settu innsigli steininn á.

5. Gydínga hord var heiptin beisk, hiartans blindleiki og villan treysk, þeim kunni ei nægiast qvøl og bann, ſem Kristur fann, líka daudann þeir lasta hann.

6. Fordast þú ſvoddan fíblsku grein, framlidins manns ad lasta bein, ſá daudi hefir ſinn dóm med ſér, hvorr helst hann er, ſem best haf gát á ſiálfum þér.

7. Gydíngar vildu veita rírd, vors Lausnara uppríſu dírd, en Drottins vald og vísdóms rád, þess vel féck gád, verk ſitt framqvæmdi víst med dád.

8. Hefdi

8. Hefdi ei vaktin geymt og gætt; grafarinnar, sem nú var rædt, orsök var meiri' ad efast þá, hvort upp réd stá, Drottinn vor Jesús daudum frá.

9. En þeir siálfir og er þad víst, upprísu Drottins hafa lýst, þó Kénnimenn Júda' af kaldri stygd, qvaldir af blygd, keyptu þá til ad bera lygd.

10. Öll svikrád manna' og atvik íll, önhtir Drottinn þá hann vill, hans rád um eilífd stødugt stár, og stiörnin klár, slægdin dramblátra slétt forgár.

11. Hvíli' eg nú sídarst huga minn, Herra Jesú! vid legstad þinn, nær sem eg gæti' ad greftrun þín, gledst sála mín, skélfing og ótti daudans dvín.

12. Sektir mínar og syndir barst, siálfur þegar þú píndur varst, uppá þad dóstú, Drottinn kiær! svo qvittudust þær, hiartad því nyiann fognud fær.

13. Þú gróst þær nidur í gröf med þér, gafst þitt réttlæti aptur mér, í hafsins diúp, sem fyrispád finst, þeim fleigdir innst, um eilífd verdur ei á þær minst.

14. Svo er nú syndin innsiglud, ydrandi sála qvitt vid Gud, eilíft réttlæti upp-

uppbiriad, í annann stad, trúud manneskia þiggur þad.

15. Daudi þinn, Jesu! deydi hér, dárlega holdsins girnd í mér, grøfin þín hylie glæpi mín, fyrir Guds augsýn, ebli mér styrk upprisan þín.

16. Stein-þró míns hiarta' úthøggvin sieſt, heilagur Andi vann þad beſt, líndúk trúar eg læt í té, minn Lausnare! ilmandi smyrsl ydrunin sé.

17. Svo finni' eg hæga hvíld í þér, hvíl þú, Jesú! í brióſti mér, innsigli heilagur Andi nú, med áſt og trú, hiartad mitt, svo þar hvíliſt þú.

18. Dírd, vald, virding og vegsemd hærſt, vitſka, makt, speki' og lofgiørd stærſt, sé þér, ó Jesú Herra hár! og heidur klár, Amen! Amen! um eilíf ár!





# Tveir
# Píslar-Psálmar,
útlagdir af
Hra. Skólahaldara
**Þorvaldi Bødvarssyni.**

## I.

Lagid er: Adams barn! synd þín svo var stór.

Réttláti Gud! ransaka mig, reyn hiarta mitt, eg kém fyrir þig; siá! hvort eg heils er hugar, þá hugsa' um þína hiartans qvøl, heitustu ást og písla bøl, sút mína sálu bugar; Herra! þín písl mín heilsa sé! hvílík miskunar stórmerke, virdtist þú verøld sýna! hvønær hef' eg nóg hugleidt þad? hvønær best, sem gat vegsamad, af allri sál elsku þína?

2. Fridar-høfdíngi, hetia, rád, hins Hæsta kraptur, af Guds nád, herklæddist holdi' og blódi; heims synda-fórn svo ordinn ert, á sál flecklausri lídur snert, af eilífra eymda flódi; þinn vinur, sá

þig

þig sveik, er nær, sorg og ángist þitt hiarta slær, tekst upp Guds reidi-tími, þér hugfellst, píst þig helvítisk skér: „hiart„ans Fadir! ef mögulegt er, bikar sá „burtu rými."

3. Sárheitt blód verdur sveiti þinn, þú sár-þiakast og máttfarinn, til jardar þér flótum fleigir; þú, Son hins Hærsta! bliúgur berst, þín bæn, af ofraun þá þú skérst, ítrekud heyrist eigi. Af Gudi' í stridi styrktur þú, til straffs endalauss sannstu nú; eilífdar bøn þig hrædir, sekt manna hlódst þig siálfur á, í syndugra höndur gafst þig þá, gudlegu med þolgædi.

4. Þú, Guds réttláti' og sanni Son! siálfur barst illvirkianna laun, saklaus og samheilagur, svo var þad fyrri fyrirspád, framkom nú Drottins hiálpar-rád, vor fridar- og frelsis-dagur! illþýdid þyrsti í þitt blód, ossann þín guddóms dygd afstód, svo frelsast sálir kynnu; jeg þinn mordíngia játa mig, Jesú! því allra synd á þig, hlód Gud, svo frid vér finnum.

5. Allt

5. Allt til þræls mindar audvirdtist, en guddóms dygda=skarti lýst, æ er þitt ástar=hiarta; þolir svo hatur, hád og smán, hörmúngum, eymdum fullur; rán matst ecki mind Guds hiarta; þig, sem Gud hét oss, sáum vér, samt eckert er oss lysti' á þér, ei mind né fegurd fríða, fyrir þér, ó Gud! athvarf mitt! andlit þeir jafnvel birgia sitt, sáttmáls born siálf þig níða.

6. Offur það, sem Guds eilíst rád, áliktad hafdi, hvort hans nád, hlód med harmqvælum vorum, fyrir misgiord=ir fólksins þíns, fyrir sekt brotlegs manna=kyns, qvalrædum kraminn sárum; í sak=leysi þínu þegiande, þreytir þú veg ad krossins tré, sem lamb þad slátursbídur; sús, líkt sem hetia hugprúdust, hels=neyd, sem oss var makleguft, af ást til vor aumra lídur.

7. „Eg mætti telia mín öll bein,
„mínar hendur þeir hafa med flein, og
„fætur gégnum=grafid; feitir umkríngdu
„uxar mig; ómildra hópur gladdi sig,
„sína vild sied ad hafi; eg hrópa, og
„mín hiálp er fiær, þeir hæda mig, sé
„hann

„hann Gudi kiær, hann klagi, hiálp
„mun kanna! madkur eg; ecki madur
„er nú, mig í daudans dupt leggur
„þú, spott lidsins, spé mannanna.“
8. „Bráð qvalaranna' eg ordinn er,
„eg hrópa, þú ei svarar mér; mig
„yfirgéfa allir; þioskudum, sár þá þorst-
„inn var, þeir rétta mér til svolunar,
„beiskt edik blandad galli; sem var mitt
„hiarta' er suñdursmelt, svo sem vatni
„er mér úthellt, mín ángist er þeim
„gledi; því yfirgafstú þióninn þinn,
„þraut-mæddann, ó Gud minn! Gud
„minn! af sálar súru' erfidi.“
9. Þú hnegir nidur hofdi þín, hrópar:
fullkomna borgun mín, þú deyr, jørd dop-
ur titrar; erfidi hef eg aukid þér, ó
Drottinn! skélfdann hug eg ber, um
píst þína þenki bitra; hvad er eg, frelsi
ad féckstú mér? æ! fengi' eg heitast þack-
ad þér, siá Drottinn! vægd mér sek-
um; þín hiartans ást skal hvetia mig,
ad hlýdnast þér, svo aldrei þig, særi
med syndum frekum.
10. O! hvílík písla eilifra, eptirbid
mun þeim tortina, sem forsmá forþén-

un

un þína; þeim — sem ei stunda' í sannri trú, senda ástgiöf ad þeckiast nú, til þyngra dóms þín er pína — synda-þiónum, er sífeldt þig, med syndum smána' en játa sig, forþénun þinni treysta; hvørr ord þín smáir elskar síst, hvørr ei þig elskar dæmist víst, qvøl þín hann kann ei hreysta.

11. Þú hefir heitid hiástod mér, til helgunar svo eg' í þér, ávøxt stadfastur færi; þín heiløg píst mig huggar ein, hvenær sem synda banvænt mein, samvitsku hrædda særir; giør mig brennandi' í bæn og trú, bind mig í elsku vid þig nú, þitt dæmi gef eg geymi; veri þín qvøl mín vørn í neyd, í velgengni stod, hlíf í deyd, og huggun efsta' í heimi!

## II.

Lagid er: Hiartad, þánkar, hugur, sinni.

O minn Jesú! øll þín pína, alla sefar hrigd og neyd, huggast eg, þá hormúng þína, hugsa um og beiskann deyd; til lausnar, allt, því leidstú mér, lát mig aldrei gleyma þér! þér, sem synda-

synda=sekt barst mína, saklausann þá létst þig pína.

2. Ef mér flygur synd í sinni, svik=ult mín ef freistar hold, þú æ sért mér þá í minni, þar vid krossinn stódst á fold, hæddur, qvalinn, hatadur, hugg=ún vina ørsneiddur, fiøtur synda' eg sæ þá slitid, og fullur viknan til þín litid.

3. Heims ef lyst mig glisleg ginnir, glæpa fram á breidann veg, giálífis ad glaum eg sinni, gédhraustur, nei! segi eg; heims lyst Jesúm hengdi', á tréd; hins réttláta qvaldi géd, burt holds lyst úr brióstí mínu, bió hún Lausnaranum pínu.

4. Ef mér ógnar ótti' og mæda, eg þá, Jesú! med þér líd, mig þau ecki megna' ad hræda, minnist eg þitt dauda stríd, þitt mér kéndi þolugt géd, þol=inmædi' ad sigra med; æ! eg vil þér eptir feta, ebl mig bædi' ad vilia' og géta.

5. Og þó hel á fund minn fari, full=øruggur samt er eg; þú, mín vernd og minn Lausnari, máttir gánga sama veg; og þú vegsemd ávanst þér, en féckst stad tilbúid mér, í þíns Fodurs fridar ríki, finst þar eckert bøl né sýki.

6. Jesú

6. Jesú! sál opt minntú mína, að minna vegna blóð þitt rann, kross þinn dauði, qvöl og pína, qvittun synda' og lausn mér vann; þá skal öll mín æfi-stund, offrud þér; en hels við blund, þig mitt andvarp efsta prísa, upp til dírðar holdið rísa.

---

## Psálmur um Jesú pínu,

útlagður af

### Sra. Þorsteini Sveinbiørnssyni.

Lagið er: Uppá fiallið Jesús vendi.

Kristur þoldi' á krossi dauðann, Krist-ur hreinn var giørdur synd; Krist af vina verndun snauðann, vann for-dæma þióðin blind, Kristi, sál mín! kénn til nauða, Kristi skoða píslar-mind.

2. Hans kénníng og hegðan bæði, hiartans aumkun vitni bar, flutu af vörum guddóms gæði; glötuðu til frelsunar, en dírt metnu Adams sæði, á krossinum píndur var.

3. Æ! mér gleyma aldrei bæri: ást til mín hans dauði var, og lærdómúr lífs hliódfæri, líf mitt honum sig. fórnar; ord hans mér (ef elska' og læri), ablar sælu himneskrar.



## Prent-villur:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Bls. 10. | línu 21. | Urædin, | les | Urrædin. |
| - - 15. | - | 15. Star | - | Strar. |
| - - 58. | - | 7. setiá | - | setia. |
| - -116. | - | 20. Sonar | - | Sonur. |
| - -128. | - | 25. jasan | - | jafnan. |

